vier giorum Packir þier, þier sem oß Myskun tier.

# 20. Psalmur.

## Um̃ Mañs riettilegañ Undirbuning, ad ur hann gengur til Alltaris Sacramentis.

Ton, JEsus Christur ad Jordan kom.

Ver sem ad Herranns Holld og Blood, hyggur sier ad medtaka, Leyndardoom Guds þad þecki Piood, þvi skal sig best rannsaka, so sem Postulinn Paulus tier, um̃ Proofan Christi Sauda, Afelli so ei eti sier, edur i Lijfs Stad Dauda, sem aflar Sælu Nauda.

Þessi Proofun hun Andleg er, um̃ hana fellur Nœda, Molld og Aska er Madur hver, Madka og Orma Fœda, af Jorduñi uppreñur Mañ, af Jordunni hier nærist, ad Jordu verdur aptur hann, i Jordunni fortærist, wt Jordu aptur færist.

Hvad er Mannskepnann annad eñ, Andstyggilegt Blood-Sædi? Til Ormaks fœdast allir Meñ, Odum falla Lijfs Giædi, Hiervistar Stundir hefur faar, Hiervistar Raunir margar, Hiervistinn þegar hemtast staar, Hiervistum Daudinn fargar, Hiervistar Bloom ei biargar.

J Fædlugu veit einginn hvad, um̃ hanns Hagi þa skedur, a Dauda Stundu eins er þad, Æfinn ðregst Sorgum medur, øll skopud Skepnann eckert er, er þo Madurinn minna, i Augliti sijns Herra hier, hier vegna Synda sinna, er þær þo

ecki

ecki vinna.

Kvølldmaaltijd Guds nu skaum senn, sijna med Leyndardooma, Sacramentum þad, merki Menn, Meddeiling Christs Lijkama, Lijfsins Uppsprettu Lind þad er, Lijf og Nærd sem oss gefur, Lijfkroptug þessi Lækning hier, Lijfsins Grand allt afskefur, Lijf eiliift i sier hefur.

Þetta vors Herra Holld og Blood, hvort oss til Nautnar kiori, helgar og giorir Heimsins Piood, Heilags Anda Musteri, læknandi Andleg Lemstrar Saar, Læknandi Synd Banvæna, Lækning þessi og Lijfgun klaar, læknar Guds Born alleina, riett trwadir þad reyna.

Fagni nu Christi Brwdur blijd, Brwdgumans Roddu hlijdi, i Brwdkaup Lambsins bodinn frijd, Brwdkaups Klædi sig skrijdi, Brwdkaups Klædid þad besta Hnoss, Brwdgumans er Riettlæti, Brwdkaups Skrwda þeim bw þu oss, Brwdgumann JEsu sæti, og leid oss i Lijfsins Mæti.

## 21. Psalmur.

### Um Christi Uppstigning.

Ton, Oll Christnin gef ad Gaum.

Sia þig mijn Sail um kring, sia nu Christs Uppstigning, sia nu hvert Gagn hun gefur, Guds Rijki opnad hefur, Drottinns Lof Lijdur magni, Lijfsins Inngaungu fagni.

Lijfs votu luktar Dyr, lukt var Paradijs fyr,

enn Christi Uppfǫr kunni, opna þann Veg Saalunni, Drottinns Lof Lijdur magni, Lijffsins Inngaungu fagni.

Ofanstie hijngad hann, hier so Riettlætti Mañ, eins lijka upp nam stijga, oss ad giora Dijrdlega, Drottinns Lof Lijdur magni, L. J. f.

Sem Brwdur blijd i Lund, Brwdgumans gyrnist Fund, Saal mijn lææt þig so laanga, i Lambsins Brwdkaup inngaanga, Drottinns Lof Lijdur magni, L. J. f.

Af Fialli Oliveti, uppstie vor DRottinn þui, Frid og Saatt framberandi, Fognud Samvitskum sendi, Drottinns Lof Lijdur magni, L. J. f.

Med honum maattu þa, mijn Saal, aa Fiallid gaa, goodum med Gyrendar Hootum, gior þad, enn ecki Footum, Drottinns Lof Lijdur magni, L. J. f.

Fiallmerkir Himininn haa, hann skallt þu gyrnast aa, Slettlendid Heimsins Hrecki, hverium þu fylgir ecki, Drottinns Lof Lijdur magni, L. J. f.

Bethania eitt er, Angistar Hwsid hier, giegnum þad Leid þijn liggur, ef Lijffsins til ferdast hyggur, Drottinns Lof Lijdur magni, L. J. f.

Hver Saal sem hyggst ad faa, til Himins med Christo naa, Goodverkum giarnann safni, Gudhrædd, enn Vondu hafni, DRottinns Lof Lijdur magni, L. J. f.

Guds Barna Himnesk Holl, Heilog og Blessud oll, saurugt kann sijst ad lijda, Synd maa þar wti bijda, Drottinns Lof Lijdur magni, L. J. f.

Hañ

Hann sem gott hyggst ad faa, hann sem Gud gyrnest siaa, hann skal sier hier fyrst haga, hanns i Augsyn Gudlega, Drottins Lof Lijdur m. L. J. f.

DROTTInn gef Dugnad þu, DROTTinns Bod rækium nu, DROTTinns i Dijrdar-Prijdi, DROTTinn oss alla leidi, DRottinns Lof Lydur magni, Lof DRottinns alldrei þagni.

# 22. Psalmur.

## Um þann Hellaga Anda.

Ton, Nu hefst Nootttin og hylur Dag.

PA vor HErra til Himna stie, Heilagann Anda ofannsende, yfir Postula allra fyrst, aa Hvijtasunnu i hægum Gust.

Bæn og Eindrægni blifu i, Bænar Andinn kom yfir þa þvi, Samband Elskunnar siaalfur hann, samannbatt Trwnni Gud og Mann

I Reidi Elldi ofann foor, aadur fordum Gud Skapari vor, i Astar-Loga Andi hanns, ofannstie nu til Syndugs Manns.

So sem ad JEsus Son Guds var, sendur Heimi til Frelsunar, eins kom Heilagur Andi nu, oss ad helga i riettre Trw.

Saal verkar Lijfid Lijkamans, Limanna Afl og Hræring hanns, allt eins Heilagur Andi kann, Andlega ad hræra og liifga Mann.

Salomons Hws vid fyrstu Feorn, fyllti Guds Dijrd i ytstu Horn, vid Bænoffur Hws Hiarta

 þijns

þijns, Heilags Anda Dijrd fyllir eins.
Sä Helgum Anda yfir bijr, Athofn sinni til besta snijr, øllum vill giarnann gagnast hañ, Guds vors i Þvi Sporgaungu Mann.
Helgum Anda sie hætt Lof tied, hærstum Fødur og Syni med, fyrir Astgiafir allar senn, Amen af Hiarta sijngi Menn.

# 23. Psalmur.

## Um̃ Vegsemd Heilagrar Christni.

Ton, A eiñ Gud vil eg trwa.

SEym ad, i tæku Toomi, trwud Sæla med Þackargiord, ad Gud þinn Fader, froomi, fieck þier Hæle, hiä siñe Hiord, Þad er hanns Christninn klaara, Christi Unnustann trw, einginn Asellis Baara, orkar þier dreckia nu, i Ørk Guds Barna ertu, innleidd og geymd i Hlie, unn henni og allt eins vertu, sem Andleg þijn Moodir sie.

Mä hun Þvi heita Moodir, Mey og trwlofud Brwdur ein, ad Andleg Børn alltijd fædir, einum Gudi i Trygdum hrein, Holds Villd og Heimsins Hreck, og herfilegt (Satan) Grey, þessa vill þijdast ecki, Þvi er hun skijrlijf Mey, soddann Frw sier til Handa, Son Guds trwlofa vann, og henni sinn eiginn Anda, i Egta-Pant skeinkti hann.

Þad Skip mä Christni kalla, sem Christur siä sur innannbords er, Trw er Stijrid, Stioorn alla, sterkur og vijs took Gud ad sier, Mastur i

Skipi midiu, merkir Christi Kross-Trie, Englar hafa þar Ydiu, Ohætt so Baatnum sie, Seglid er Ord hanns hreina, Andi Guds blæs i þad, Leid kañ so Lyduni beina, i Lijfs-Hofn og Sæla Stad.

Christninn er Vyn-Tried væna, og Vijngardur sat sem Frioofgun vann, Blood JEsu giørir þann grænann, Gud hefur sialfur plantad hann, umgyrdtur alla Vega, Englaña Verndar Mvor, hann groof þar vijst Vijnþrvgu, var þad hanns Pijna swr, Dijrdarleg Drottinns Lilia, dævænt bijdur hun Gied, vondir Þyrnar þo villia, vara heñi upp med.

Enn er Christniñ sw Kvinna, klædd og umgyrdt var Soolunni, þad skal þa Þijding finna, þetta er Christi Riettlæti, Tunglid hun trad med Footum, tel eg þad Heimsins Prial, Satan med Svikum lioottum, sijst vinnur henni Taal, koldsck ytra Asyndum, iñra þo dæfalleg, þunglega þreyngist Stundum, þreytandi Krossins Veg.

Er hun vijst Andleg Moodir, undir Krossi þo stendur nu, berandi noogar Naudir, Nattúru Pælmvids hefur sw, Viintried þad ver þess betur, sem verdur þvi geingid nær, Christniñ eins aukist getur, þa Anstreymis Þwngann fær, Guds Doottur Heimur hyggur, Hrak mest og Vanþock gaf, Tæra-Bikar þa þyggur, þegiandi dreckur af.

Sodbann Tign Saal miin stæ du, sem Christniñ hefur leyñt og lioost, Heimsins Hiegoom afsnadu, hallt þier vid heimar Moodur-Briooft, þu ert

innann Skips Borda, wtsteip ei sialfri þier, sen-
da skallt fyrst og forda, Skeria Bodum þig ver,
haga so. Hiervist þinni, ad Hreinsunar sie þier
Stund, og Bloomlega Brwdi finni, Brwdgum-
inn hijr i Lund.

HErra þijns Hylli mundu, hann er Vijntried
enn Kvisturinn þu, Groodursett i hanns Undu, A-
vøxt goodann þvi færdu nu, sa øss i Samlag kiori,
sinnar Christni nu hier, ad Hæd til Himna beri, sem
hreosandi Sigri er, hialpi oss Helgi Andi, Hofn
og Lending ad naa, a Lifandi Manna Landi, Lioo-
ma Guds Dijrdar sia.

## 24. Psalmur.

Um̃ þad, hvornin̄ Gud hefur fyrirætlad
alla þa trwudu, til Eilijfrar Sælu.

Ton, Gud þañ Eingel siñ Gabriel.

EF þu Seal mijn, Utvalning þijn, efar i Hiarta
þijnu, horfdu þa fyrst, a HErrann Christ,
hanns Fæding Lijf og Pijnu, i honum þu, Utvalin̄
nu, i honum trwud vertu, Ofka Barn Guds þa
ertu, fyrir utann hann, þarf einginn Mañ, Goods
vænta sier, Gud slijkum er, einn fortærandi Elld-
ur, Utvalinn mai, Sann kallast sa, sier fast vid
DRottinn helldur.

Þvi er þad þrennt, sem þier sær kient, þetta enn
gior ad skilia, Guds Myskun su, þraatt þiggur þu,
hier synir fyrst hanns Vilia, Forþienan Christs,

er Vottur viß, vill Gud til Lijfs þig leida, liet hañ þvi Sön sinn deyda, Andi hanns þa, er þridie sa, i Ordinu hann, upplijsir Mann, Astverk Drottins svo skilie, Gud soor þann Eyd, ad einskis Deyd, eda Fordæming vilie.

Saal mijn þu sia, þria Stoolpa þar, þijn Utvalning a stendur, Gud þig tilbioo af eingvu þo, er hier hinn fyrsti kiendur, sijdann þa snaud, i Synd varst daud, Son hanns þig endurleysti, og fallna a Fætur reysti, þridia Stoolpann, þijna Skijrn sann, Guds Barn i Trw, giorir þig sw, gaumgiæf þu Myskun slijka, af þvi hun hier, so undann fer, eptirfylgir hun lijka.

Alldrei þu kannt, sullgrunda grant, Gud hvad þier velgiört hefur, hann lægdi sig, enn leysti þig, Lijf fyrir Hel þier giefur, hañ hiellt þier fast, so hætt ei dattst, hann þig villta vidrietti, i þokvad Haglendi setti, hanns Hondum i, hvijlir þu frij, hañ Heill þijn er, hann gaf sig þier, honum mætt vijst behallda, hann þijn geyme, honum Lof sie, hier og um Alldir Allda.

## 25. Psalmur.

### Um Nytsemi Bænariñar.

Ton, Sælir eru þeir allir nu.

O! Hvad Bæn Mannsins ofl ug er, sem wthellist a Jordu hier, i Hædum allt kañ verka, Himinsins Lykill heitir þvi, hun er vor Skiollur ur Naunum

unumi, sigrandi Satan sterka, einn Myrr-Vegg-
ur þvi orka mæ, ad Ovinir sijst i Hollu næ, eins
heptir hun Guds Reidi, hun er vort Tilflugt Hor-
mum vor, hun er vor Erindisreki trwr, hun kann
til Himna leida.

Gyrnist þu Komu Grædarans, gudhrædda
Bæn læt leita hans, hun mun hañ fullskiott fiña,
gyrnest þu nu i Naudsyn hier, Naadar Dyr DR-
ottins opnest þier, þad kañ hun vel ad vinna, ef þig
þyrstir i eilijft Gotz, andleg Hella er JEsus oss,
Bænar Vond hafdu i Hendi, slæ þu honum þa
Hellu æ, HErrans Naadar Vatn giefst þier þa,
ætskonar Bol bætandi.

Ef þu villt Gudi offra hier, einu þvi honum þeck-
ast er, trwud Bæn þijn er þetta, sæ goodi Ilmur
Sætleikans, sem hun færir i Augsyn hans, stiller
Guds Reidi rietta, ef med honum villt umgæng-
ast, elskadu þa Bænrækni fast, ef þu villt einiñ sm-
acka, hversu sætur ad Herrañ sie, i Hiartans Hws
med Bæninne, hann skallt innleida og locka.

Bæninn skal vera skickud riett, skynsamlega fyr-
ir Gud framsett, Trw good med Litilæti, audmi-
wk, forsiæl og alldiarfleg, Æru Guds stundi jafn-
æn nœg, Naungans Gagns og giæti, Bænar
Hwsid sem Hiartad er, fyrir hverskyns Ovinlæsa
ber, enn opna einum Gudi. Sæ Jesus sem oss bid-
ia baud, bænheyri oss i allri Naud, og til Lijfsins
innleidi.

# 26. Psálmur.

## Um̃ Verndan Heilagra Engla.

Ton, Gisrvoll Christniñ skal glediast nu.

Sioa hier Guds Mÿskun, Saala miin, hañ setur hier Engla Skara, ad greida þinn Veg og gæta þiin, og grandvarlega bevara, ecki þurfum nu undrast vier, þo adrar Guds Skiepnur þieni oss hier, fyrst Englar ei þad spara.

JEsus vort Hofud andlegt er, Engla Vernd fieck hañ riika, Limir hanns erum eiñin vier, oss geima þeir þvi liika, a Himnum eiga Andar þeir, um̃gaangast med oss siidar meir, þvi tiaa nu Wivons kan sliika.

Daniel leystu Lioonum fraa, Loth vor Sodoma Elldi, Englar vor þanniñ geima og gaa, vid grim̃u Satans Ofbelldi, Saalirnar flytia Sælu i, sem baaru Oudu Lazari, DRottiñs i Diirdar Velldi.

Heilagir eru Englarner, eins skylldir Saal miin breita, i Augsyn þeirra þad eckert gior, Osæmilegt maa heita, Hreinir þeir flya Synd ef siaa, so sem Viiflugur Reiknum fraa, og Dwfur Odaun hata.

Gledi Wijn eru Englum hier, Ydrunar Taarañ Maña, gledium þa þvi og giorum vier, greida Ydrun Syndaña, andlegir eru Andar þeir, andlegt ber oss þvi stunda meir, so faaum Fylgd Englaña.

O! Gud sem lætur Engla Her, oss nu ad Hoiðum bera, og lainga Reysu leida hier, Liifs um̃ Ey-

dimork þvera, lát þá sómu þá Lijf vort dvijn, leida oss iñ i Dijrd til þijn, uñ oss þar ásamt vera.

# 27. Psalmur.

## Uñ Slægd og Uñsáatur Diøfulsins.

Ton ; Fadir vor sem á Himnum ert.

TAk þig i Vakt, þu veslug Sál, Veidarinn Satan bijr þier Tail, uñsitiandi hvad orka kann, Otál Svikrædi bruggar hann, fellir Mann fyrst i Syndir sár, sijdann Roogber oss Gudi hiá.

Syni Guds bioo hann Svika Mein, svijkia villdi hanns Lærisvein, Adam felldum i Armood vejk, i Christi Skoola Judam sveik, O! hvad hægra þeim Ovin er, oss ad Tál-draga veika hier.

Alla Vegu hanns Uñfall rijs, Athofn hverri er Snarann vijs, Medlætis Lyst er Metnads krijng, Mootgángi fylgir Orvænting, vid Aura Safn fær Agyrnd fest, alla Gudrækni hindrar mest.

Metnad Ohoofs inetiar, Embættid Sn oru Letinnar, Yfirbodan fær Agyrnd Kied, Uñvondun fylgir Reidi med, Uñgengni sparar Ofund sijst, Uppheſdinni er Drambid vijst.

J Munninn leggur Lygi hann, lioota Hugsun i Hiartans Rann, sierhvorn Lim Manns til Syndar droo, sauruga Drauma opt tilbioo, alla Stadi hañ Ottast þarf, Obreyttur fremur Svika Starf.

Af þvi trwud Sál ad þier gá, andleg Hervopn þig tak uppá, Sannleiks Lindann þier brwka ber,

Bryn=

Bryniu Rietilætis faadu þier, i JEsu Undir inflij þu, wr þeim Biargskorum ver þig nu.

Trwar Skiolldinn þier tak i Hand, til adwtslockva Satans Grand, hun fær wr Stad so Fiollinn fært, Freistni og Efa vel fortært, Hiálpræ-dis set þier Hiaalm uppaa, heilog Von mijkir allskyns Praa.

Sverdid Andans sem Ord Guds er, Jnblæstri Diefuls mooti ber, ef þitt Saalar Skip Afoll fær, allskyns Freistinga Bylgiann slær, med hreinni Bæn vek HErra þiñ, hun deyfir Satans Skeytinn stinn.

Veistu best DRottinn Vanmaatt Mañs, veitstu best Orku Freistarans, vorum Herskrwda vill hañ naa, vor Merkis-Madur siertu þa, i oss strijdandi eff vort Raad, i þier so saaum Sigri naad.

## 28. Psalmur.

### Nockrar Lijfs-Reglur Christins Mañs.

Ton Hvar mundi vera Hiartad mitt.

Lijfs Reglur hollar heyred enn, hugfestid Born-inn smaa: Dauda, Eilijfd og Doominn senn, daglega þeynkid aa, nærsta miog þetta naalgast Menn, naum er Lijfs Stund og faa, lagi þvi hvor so Lifnad sinn, ad lendi hann Gudi hiaa.

Oviist er þad hvort ungur Mañ, Ellidogunum nær, Ydrun sendi þvi undañ hañ, aadur eñ Daudinn slær; Margur, hastari Helstund fann, helldur eñ

enn meintum vær, nu i Dag Lijk sa kallast kann, Kongur lifdi i Giær.

Vogndu ei fyrir Vinskap Mañs, ad viña hvad Oriett er, þvi Guds er eins, enn ecki hañs, yfir ad dæma þier, þeim Hylli DRottiñs Doomarans, daglega afla sier, þa Reikning heimtir Lyds og Lands, Linkind i Maalum tier.

Ottastu Gud og unn sem ber, annast Naunga þinn, Ovin þolugur Illt ei gior, ollum vert good-vikiñ, laat alltijd nockud ægeingt þier, ad gaa Dygda Veginn, DRottni lifir, þa deya fer, saa deydir Vilia sinn.

Uñgengni þijna og Athøfn best, allskonar Dygdum prijd, þolinnmoodur þa veitir vest, Vidmoots Hegdun sie blijd; allt þad hvorn Dag þier yfirsiest, umbæti Kvolld-Bæn frijd, enn þad þu margt gott Ogiort letst, ydri þig fyrr og sijd.

A Hædum uppi Hluti Priaa, hugleida skalltu mest: Auga Guds fyrst, sem allt kann sia, og Eyra sem heyrir best, Samvitsku Book er Pridia þa, þar aa allt skrifad siest, þetta skylldi oss fæla fraa, ad synsast hvad giegnir vest.

Umlidnar Syndir angri þig, ackta lijtt stundlegt Fe, eilijf Giædi sie gyrnilig, gief fraa þier Uggleyse, Vonum fyrr Daudiñ sijnir sig, syndga þier Obeckt sie, skil þig vid Heimsins Hreckia Stig, Hlijdni laat Gudi i Te.

Hreinlijfi Mañs er hættast þa, Hollds Vellystingar mest, Lijtilæti þad vooga maa, Luckann fær

aungvann Breft, Riettsyni hellst kann hæpid skaa, Hondlun stoora vid sest, gyrnst þu ei framar annad aa, enn þocknast Gudi best.

Stunda þu so ad vera vijst, sem villt ad halldinn siert, annars Heims fylgir oss þa sijst, utann hvad høfdum giort, i Herrans Augsyn hvern Dag fyrst, hier so vel snidinn vert, ad Ottist ei þo audnadist, eins dæmist, og þa ert.

Set þier Lifnadar Leidrietting, Lijfs medan audider, sa Heims Foroktun hellst er krijng, Hylli Guds aflar sier, Packlætis er þad Aminning, ef þig Velgeingni skier, enn hitt Ydrunar Uppvakning, ef þu Mootlæti ber.

Þitt Lijffins Takmark læt tu þvi, Lausnarann Gud og Mann, stefndu aa hann, þvi Rææd hanns nij, Nytsemd alla þier vann, Elskann þig hefie Hædir i, hallt þier so fast vid hann, hreint Lijtilæti Hofmoods frij, hønum best þocknast kann.

O! DRottinn kiær, sem siaalfur sier, soddann vier gyrnust faa, vertu oss nær so vinum vier, Vilia þijns jafnann gaa; Lof þitt og Æru eflum hier, enn sijdar Himnum aa, syngium þig vært og syngium þier, Sanctus og Gloria.

# 29. Psalmur.

Um þad hverninn vier skulum Uggaleysinu fraa oss hrinda.

Ton, Ein HErra eg best atti.

Hvar

HVer um̃ þad hugsa villdi, hvad tregt ad hiælpast er, alldrei so Ugglaust skylldi, ana fram̃ sem nu skier, i alla Stadi ollum, alla Tijma er hætt, Englar i Himna Hollum, hafa þvi lijka mætt.

Adam var Ohætt eigi, i sællri Paradijs, svo fiell frá Sannleiks Vegi, Salomon harla vijs, David sa mæti Madur, Mañslag og Hoordoom vann, hvergi finnst hier sa Stadur, Hættulaus segiast kann.

Yfir þier uppi grundir, einn Gud sem stygdir nu, Helvijti heitt nidri undir, hvert vijst forþientir þu, Bak til er Glæpa Geimur; giegnt Augum Doomurinn, aa allar Hlidar Heimur, hier nu, Elskugi þinn.

Hygdu ad hvadann siertu, hvar af þijn skamast mætt, athuga eins hvar ertu, Andvarpa sijdann þrætt, grunda hvert Leid þijn liggur, lifdu þvi Ugglaus sijst, Fram̃syn til Himins hyggur, Hlid mioott vandratad vijst.

Ef ad þu allskyns Mæti, aa Himnum gyrnist sea, i giegnum margt Mootlæti, mættu fyrst gaanga þa, Korvnu ef kijs ad hljoota, kallmañlega þa strijd, þeim er bein Leid til Boota, sem bugar ei Mootgaangs Hrijd.

Æfi Mañs oll maa heita, Orusta Hættu mest, þa oss synist vel veita, vor freistar Satan vest, so snart sem sofna hyggium, Svikarinn vaka kann, Vopnin þa vær afleggium, vielsullur bryniast hañ.

Hver kann hier fastan̄ finna, Fegnad Jardrijs

ki oa? Allt þad vill Odum tinna, oss sem nu gledia maa, enn hvad oss angra kuñi, alldrei til Þurfda ser, Uggleysi eingiñ uñi, aldur Strijds Lokiñ sier.

Doomarinn Christur kiæri, kiemur þa vonum ei, vel þier þvi vaka bæri, vertu sem forsial Mey, laat þig ei Verolld villa, varfærlega framgaa, Getura alls hiñs Jlla, Agyrndinn heita maa,

O! Gud sem gafst oss Anda, Gott ad uppbyrja nu, laat oss stoduga standa, ad stunda hvad gyrnist þu, fraa Jllu oss bevara, enn þa Hiervistinn dvijn, uñ oss med Fridi fara, i Fodurland heim til þijn.

# 30. Psalmur.

## Uñ þad, hvernig Madur skal bera sig ad breyta eptir Hegdan Christi.

Med sama Lag.

FRelsarans er Framferdi, fegursti Spegill vor, Uppfræding oss þad giorde, orkum hañs Dygda Spor, oll vor Heill er Christs Pijna, eñ hanns Lijfernis hier, heilaga Hegdun sijna, hverskyns kenandi er.

Saa sem vill sijdar rijkia i Sælu Drottni med, hann skal fraa Vondu vijkia; Villd hanns stunda og Gied, Lijfs-Reglum sem oss setti, siñi med Hegdan hier, allir sig eptir rietti, elski hañ hreint sem ber,

Hvor sem vill (vor Gud sagdi), vel eptirfylgia mier, siñ Kross skal sa ad Bragdi, sialfur fyrst

berahier, sa sem kaň sier afneyta, sijna um̃ Lijffsins Tijd, Ast Guds og Elsku heita, avinur fyrr og sijd.
Giet þu oss, þijdi HErra, þijna Sporgaungu Menn, fyrirgief vort hid verra, vegleguft Ening Þrenn, veit þu ad vort Fram̃ferdi, veniest lijkt þijnu hier, so ad oss eilijf verdi, Ununar Vist hia þier.

# 31. Psalmur.

## Um̃ Afneitun sialfs sijns.

Ton, Allt mitt Raad til Guds eg set.

HErr mijn Saal hvad þinn HErra tier, hver sem vill eptirfylgia mier, sier skal sialfum afneita, elski neckur sig sialfan̄ mest, sonn Ast til Guds þar utriimest, so maatt ei Saal mijn breyta.

Sin eiginn Vilia mælir moot, med þvi deydir sialfs Elsku Root, Christs Lærisveinn kann heita, Ast til Guds er ei alvarlig, utann Mann hati sialfann sig, so skalltu Saal mijn breyta.

Hvad sem einn elskar um̃fram̄ allt, er þad hans Gud, sem meina skallt, hellst muni Vegsemd veita, hver sem mest elskar sig sialfann, sig giorir vlijst ad Gudi hann, so maattu ei Saal mijn breyta.

Abraham stoorar Frægder fieck, Fodur-Landi þa vt af gieck, fws til framandi Sveita; andlegur Guds Mann ertu þa, Elsku sialfs þijns ef geingur fraa, so skalltu Saal mijn breyta.

Med sama Auga einginn kann, upp og nidur ad lijta senn, eins vill þad erfidt veita, ad unna sier af

Alwd

Alwd skaast, og elska Gud med sömu Ast, so maatt ei Saal mijn breyta.

Um Bloomstur nockur ordt haf er, eptir Soolu þau siwi sier, sem Soolfylgiendur heita, Afbrágðs Kostum og Heidri hier, hnijga so eins ad Gudi ber, so skalltu Saal mijn breita.

Oll Verk sem koma af Ast og Trw, i Augsyn DRottiñs vel skarta nu, þo ofs smist aumi heita, enn af sialfs Elsku ef framgaa, ecki þocknast þau Gudi þa, so maattu ei Saal mijn breyta.

Saa afneyta sier sialfum kann, sijna Vegsemd ei gyrnist hann, Guds Æru giarn ad leita, allt gott þyggium af Hendi hanns, honum skal gefast Dijrd til Sanns, so skalltu Saal mijn breyta.

Hver eiginn Vilia aa hlydest, Adams Dæmi saa skodi best, Guds Villd ei giördi skeyta, Ast hañs og Farsælld af sier braut, olli Tapun og Mañnsins Praut, so maattu ei Saal mijn breyta.

O! Madur Gudi offra þu, egiñ Vilia, so kanntu nu, sialfsum þier senn afneita, DRottiñs Villa skalltu meta mest, mundu hanns Æra eflist best, so skalltu Saal mijn breyta.

## 32. Psalmur.

### Um Hvijld og Roosemd Saalariñar.

Ton, Maa eg Olucku ei mooti staa.

HVar villtu Saal mijn Huggun faa? Hvert Skepnum hiaa, hyggur þier Hælis leita? Oß

Nei! Þeim ollum ædri ert, ei fær Þier giort, rietta Hægd Rvolegheita, JEsus einn er, allt þarflegt Þier, hanns Undum i, unir þu frij, Gyrnd þijna vill hann veita.

Brodur hanns ert, Þvi ættu fast, hann adhyllest, og uña allra fyrstum, halltu Þig lijka hañs Bustad, hættu ei pad, adra annast ad Vistum, i Auma Nægd, er ei Hughægd, hvergi hier mæ, Hvijlld nie Roo fær, fyrir utann Konginn Christum.

Metord og Vellyst margur Mañ, meina Hvijld kann, og Hughvot Saalu sinni, Ogunst Manna ef ad gustar, eins stodug var, sem Stræ Storm standast kynni, Manna Lofstyr, mieg er oss rijr, Utvallðra Prijs, annars Heims vys, hanns trwi eg Lof ei linni,

Ond vor er Lijf Lijkamans, Lijf Saalar Mañs, er DRottinn ennunn lijka, riettu Lijfi hun lifir þa, Lans Ollifuin fræ, Jbwd hanns hefur rijka, annars er daud, Ills rijk, Goods snaud, Hvijld hvergi fañ, hittir Þvi Bañ, lætur sier Fiandmeñ slijka.

Hver sem vid Gud sier hallda kañ, Hvijld Saalar fann, oruggur Heims um Haudur, gladur er vist i Sorgum sæ, sigrandi Þrær, lifir þo lijtist daudur, Astgiof Andañs, er Unun hanns, hatandi Heim, sinnir lijtt Seim, DRottins Nææd er hanns Audur.

Hreinsa nu HErra Hiartad mitt, Herberaid þitt, Unnustinn Andar minnar, Gud velkominn til Vistingar, gack þu inn þar, unn mier Jbwdar þiñ-

Ar-

er, og þa Hug-Hægd, Hvilld Nad og Frægd, lös sa þu nuer, ad þacka þier, um Ar-Eilijfdarinnar.

# 33. Psalmur.

## Um gooda og hreina Samvitsku.

Med sama Lag.

HVad sem þu Man villt hafast ad, hugsadu um þad, Samvitskan saurgist eigi, i Naviist hen-ar varna vid Syndanna Sid, sanndæm er þo hun þeygi, hun er sw Book, til Minnis took, allt þad þu hier, Orett giörer, og lijsir þvi a Dooms Degi.

Med Sannleiks Stijl sw skrifud Skra, skirir grant fra, allskyns illu Athæsi, þvi kanntu Madur syna sijst, Samvitskann nijst, vaknar vijst vært þo svæsi, swl, swinn er, særir þvi þier, ill Orma þa, ei deya sa, nagandi alla Æsi.

Legg þu þvi alla Astwd a, ad deyda þa, fyrir Jðrun Hughreina, a Ugglepsi nu ecki matti, ala þa dautt, um alla Æsi þijna, Lijfs Book þæg þier, þinn JEsus er, Lijf, Lærdoom, Trw, laga skallt þu, eptir honum alleina.

Hvar sem þu ert og hvert þu fer, hvern Tijd er þier, Samvitskann fast fylgiandi, allt hvad i hana innlagder, eptir þier ber, Jllt og Gott uppreiknandi, Geymslu Fed Frw, forvarar nu, skilar þvi þa, þig dæmaar, vill þier so verda ad Grandi.

Samvitsku Doom frekt forda þier, fyrst samm er, Sekur, Sakaraberi, Bottur, Oyblijsa, Doo-

marinn, Hrijs, Hegning stinn, sierhvor þvi var-
sær veri, þa siælf fws sa, Mæl dæma mа, sem
Witnid var, Witi Sakar, hvar er þa Undaũfæri?
So sem þu leggur allt Kapp æ, eilijft Lijf sа,
Samvitsku haf so hreina, so snart sem Maũi miss-
ist su, missest þeim Trw, missest og Guds Næd ei-
na, Syndanna Sid, varna þvi vid, Samvitsku
Kvol, Kvelling og Bol, þarftu sijst þa ad reyna.
Ur Book Samvitsku Illgiord so, med Ydrun
þvo, ad lesist ei æ Dooms Degi, sanntar Gud-
rækni set þier Form, Samvitsku Orm, sigrandi
so hann deyi, Innvortis Elld, Augna Tær felld,
flockur hratt hier, Huggun so þier, annars Heims
endast meigi.
Gef þu oss HErra Heims um Hrijd, heya gott
Strijd, og Trw heilagri hallda, Samvitskaũ hre-
in þar sie vid sest, sem kunni best, Sigursælld vorri
vallda, so Born þijn ein, hier Hiarta hrein, megi
þig sæ, i Sælu siæ, og lofa um Alldir Allda.

# 34. Psalmur.

## Aminũing til saũarlegs Lijtillætis.

Ton, JEsu Christe þig kalla eg æ,

Werd þu syrir þier Ønd mijn aum, Eymdar
Hag Maũskepnunnar, Lijtilætis so gef þu Ga-
um, gior ei Synd Drambseminar, Fæiþing, Hi-
ervist og Utfor er, allskonar Sorgum vafinn, og
Kvelling kafinn, Umferdar Reisu hefur hier, hæp-

id þo Nætur tafinn.

Illa fer þier ad upphrokast, Aska og Molldar Preckur, Anstygdar Sædi ædur varst, enn nu Saurenda Seckur, Orma Fæda snart ordinn ert, eignnlegt neitt ei hefur, þa Tijd hier tefur, utann hvad hafdir illa giort, er þier þo Hefnda krefur.

Liliu þa DRottinn segir sig, sem vex i Dalverpsunum, eru þad Hiortun audmiwklig, Ibwdar Kyrkia honum; þad Bloom mæ sijdst æ Fiollum sæ, fyrrest HErrann dramblæta, sem stoorum stæta, hefur þeim nærsta Ogied æ, elskar best Lijtillæta.

So sem Vatnid ei vinna kann, Veg forbrecktann upprenna, allteins Guds Myskun eckiran, upp til drambsamra Manna, lijtilæt Sæl er Sessinn sæ, sier sann DRottinn hægastann, og Bwstad bestann, i Augsyn hanns sæ mikid mæ, Misþocka vann sier stærstann.

Lijt þu Sæl mijn þinn Lausnarann, liet hann sig stoorum piina, med Lijtilæti liwfur vann, lækna Drambsemi þijna, um Veg Hoogværdar hefur hier, i Himna Sælu inng:ngid, og Frid oss feingid, Hofmoods Gotu þvi hugsi sier, Himins tilkomast einginn.

Vegur Dramblætis Adam er, Uthijsing Paradysar, hverninn mæ hann þvi þangad sler, þu hofmoodugi, vijsa? Athuga meir hvad Ogiort lietst, at þvi sem Skylldanir krefur, enn hitt sem hefur, Mannkosta Pogn er ollum best, eiginn Hroosann hun

kiefur.

Dygda Fesiood ei mættu Mann, med Hroosum vpinnbera, annars Dioful vid Drambid kann, Dyrgrip þeim ræntann giora, lææt þig ei Hofmood hefia hææt, hvadann i Afgrunn Lasta, þier kann ad kasta, Drambsemi ecki eiska ætt, þa Andskotans Sæng hægasta.

Allra Lasta er Sædi su, og sodan Þerri-Vindur, sem þurkar Brunn Guds Nædar nu, nærandi Mannakyndur, varist þvi hættan Hroka Vind, hver sem vill Mykun hlioota, og Nædar nioota. Gud giefi ollum soddann Synd, sannri med Audmykt hata.

Dramblætis Þrota vondann vorn, vilde̓stu Jesus ad græda, Litilæti þiin blessud Born, bid eg Þu villdir giæda, kienn oss ad feta Feril þinn, Framferdi riett ad haga, og Lifnad laga, sijdann leiddir til Lijfsins inn, lofa þig alla Daga.

# 35. Psalmur.

## Um þad hvernin Madur skal fordast Agyrndina.

Ton, Næktuna oll og Edli Manns.

Sæll þiki hialp Manns sem auglioost er, Eiska mest-rar vitkrefur, Agyrnd so hata ollum ber, argur er sa hana hefur, hann vantar mest, hvad hefur flest, hinu lijkt sem hann brestur, Dvæginn senn, vid alla Menn, enn sier þo sialfum vestur.

Drott-

Drambsemme alls ills er Upphaf, Agirnd so Roten Lasta, grundadu Mann hvert Gagn þad gaf, sem giorir hun epter brasta, opt ecke par, þier afrekar, eñ Stundum fallvollt Giæde, Vanblessan skier, illt Audsafn hier, Ohocknun Drottenns bæde.

Auds med Onæde aflar Mañ, eñ forvarar med Kvijda, sijdann missest med Sorgum hann, so vill Wsen wtlijda, annad hvertoss, þad Aura Hnoss, yfergiefur til lijka, eda vær þad, i Annann Stad, imser þa Gotsi slijka.

Agyrndar Synd er orgust þvi, Afgudadijrkun vesta, ad Skepnu sialfa setur i, Sæti Skaparans besta, Auds Þyrna þa, ei elska m..., ofmarga Saal þeir meida, Ahyggiu med, sárt særa Ged, suma i Glotun leida.

Auds Gnótt nie Ørbyrgd ecki kann, wtslockva Þorstann Aura, þess geysilegar Blossinn brann, sem borid var a hann meira, traudt Takmark þvi, Auds Agyrnd i, af þier Skylldann wtkrefur, so ei kæfist, i Afgrunn ytst, einginn Takmork sem hefur.

Saal mijn, ad slijku gef þu Gaum, gior Agyrnd fra þier ræka, Sie ber þu annad ei fyrir Doom, enn hvad gladdir Fatæka, þeirra Hond þier, holl Hyrdsla er, Himnesk enn fallvollt eigi, i hana nu, hvad innlietst þu, er þier vijst a Dooms Degi.

Hverium ei nægist Herrann Gud, hendir þann Agyrnd vesta, annastu Madur aumann Lyd, ecki mun þig þa bresta, O Christe kiær, Christne so bræ, Kiærleikans Verk sie framinn, Agyrnd wt-

ver, veit oß hiar hier, Vist og Gots eilijft, Amen.

# 36. Psalmur.

## Um̃ sañañ Kiærleika

Ton, Fadir vor sem a Himnum ert.

Osaurgud Elska ecki maa, utann Guds Born-um finnast hiar, Trwar Lioos kann ei kvikna þar, Kiærleiks Elldr sem eingiñ var, Sool og Byrte skilst alldrei ad, Elska og Trwinn, sama er þad.

Daudur er sa ei anda kann, eins Trw ef þrestur Kiærleikann, Avoxtur Andans Elskann er, Avoxtur Truenu Vitni ber, sannchristinn maa ei seg-iast sa, sem Kiærleikur finnst ecki hiaa.

Salomons Kyrkia Bloomann bar, besta Gulli oll forgyllt var, Andlegt Hws Drottinns er þar skylldt, af Kiærleika sie vel forgyllt, og i Hiarta sie Elskann fyrst, ytri Verkum þad bevijsist.

Kiærleikur um̃ber annars Brest, er hañ Mañkosta Sædid best, oll Verk þau vyrdast ill og lioot, ef ecki spretta af Kiærleiks Root, Christnena alltijd eftir sa, ædri enn Trwinn heita maa.

Ofundsiwkur hann ecki er, Illmannlega ei hag-ar sier, Goodgiarn Hoogvær sier hrokar sijst, hijr i Vidmooti, Fridgiarn vijst, Raanglæti gledst hann alldrei af, eckert Rwm vondri Hugun gaf.

Ollu trwir og allt um̃ber, ecki leitar þess hvad hañs er, þo Twngum alum linni lioost, lijka Spaa-doomum tæmist Brioost, Kiærleikur alldrei af-

mæist, eykst hann þo meir i Himna Vist.

Kiærleiks Verk, Saal mijn, keppstu vid, Christnum hlijdir best Samlyndid, sem sijdar eigum Born Guds blijd, hwa samann um̃ alla Tijd, einn Lijkami sem erum hier, ein Andleg Saal oss stiorna ber.

Eins HErra Pioonar erum vær, Eindrægni stundum, Born mijn kiær, Samhuga oll i Ast og Trw, innbyrdis skulum lifa nu, O Gud! tendra vorn Elsku Elld, i Anda Helgum fyrir Christi Skulld.

# 37. Psalmur.

## Um̃ Astundan Skijrlijfisins.

Ton, A ein̄ Gud vil eg trwa.

SKeinlijfi hann skal stunda, sem heita vill Christi Lærisveinn, Snorū Saurlijfis Synda, Satan inetiar margann einn, vier hofum HErrans Bloodi, hreinsast i Skijrnar Saa, Lostans Lifnadar Vodi, leysist oss ecki þa, i Felum og Fiærvist Manna, Foolk drygir soddann Brest, Augsyn Guds og Englanna, ættum þo fordast mest.

Afvik þad einginn leika, Augum Guds sela Giordir Manns, nie Englana wtiloka, eda og sialfs Samvitsku hans, Verkanna Vitnin̄ þessi, Varfærni gledia aatt, Lostans ofbraudur Blossi, bæst i Himinin haatt, enn sa Odaun, hann orkar, allt nær til Vijtis frekt, skamvinn sw Vellyst verk-

ar, Vokædi Æfinnlegt.

Minning Christi Kroſsfeſta, Kroſsfeſti þijna Holldſins Villd, Ufriþeynking eilijfs Neyſta, i þier ſlockve Saurlijfis Elld, Of-Hita Holldſins Breka, hepti Ydrunar-Taar, Elsku þeſs ætijd freka, Otti Guds deyfi klaar, Sparſemi ſaa ſier ſetur, ſijfelldt i Dryck og Mat, Laſtyar ſo længtum betur, Loſta-Gyrnd fordaſt gat.

Atjafnt ſkallt einhver vinna, Annrlijkis Storf, þo Naudſynlig, ſijdur kann Færi finna, Freiſtarinn til ad ſvijkia þig: Davids Illgiærdum olli, ad Ydiulaus framgeck hann, Joſeph frelſti þad Falli, frijlega þioona vann, broſandi Bragda Refur, bruggar þier Svikinn ill, Banvænann Hala hefur, honum þig ſtijnga vill.

Hætt er Hreinlijfis Bloomi, hvar ſem Sælgiæti gnæfir frekt, giættu ad Drottiñs Doomi, driigdu þvi eckert Svivyrdilegt, i Hooſi ſkallt Holldid ala, haga Gudlega þier, Heilagt hugſa og tala, heyrir Gud allt og ſier, Kiærleikans rioodust Rooſa, riettkollud Saal mijn ſiert, Skijrlijfis Liliann lioofa, lijka einninn þu vert.

Ad ſigraſt af ſiaalfs ſijns Holldi, Svivyrdilig Mijnkun vijſt er þad, enn þad vinna med Valldi, Veglegt þykir i allann Stad, Laſtanna Taaldrægt Tundur, torvelldt ad ſlockva er, vid Unga ſig ofſaſt bindur, fraa olldrudum naudugt fer, hiaa Fætækum ſijſiſt lenda, fæliſt ei Hreiſi ſinaa, ſkamaſt ſijn vart hin vonda Volldugum giſta hiaa.

Ill

Jll Gyrnd eins Atferd hefur, sem aumkunarlegur Ferda-Mañ, Hoogvær fyrst Hwsa krefur, hrokat sier strax þa kemur i Rañ, i Hwsboondans Sess sig setur, sinn Præl giørandi hann, Saal mijn þig siaa uñ betur, sijst hijsir Ovin þann. Bruna Saurlijfis Synda, sviptu Drottinn oss fraa, laat oss Hreinlijfi henda, og Himneskum Arfi naa.

# 38. Psalmur.

## Uñ þetta fallvallta Lijf.

Ton, Uñ Daudañ gef þu DRottiñ mier.

GEttu mijn Saal i Paanka þier, þessa Lijfs Daumt Volædi, Efi, Heilsa, Laan, Lucka, Fier, leikur aa grønnum Prædi, Hiartad upphef til HErrans þa, Hiegooma Heims i burtu fraa, og gyrnstu eilijf Giædi.

O hvad skamvinn Manns Efinn er! Einn Stund fyrri lijdur, sem hardur Straumur hastar sier, hvatskeytlega framskrijdur, þess meir styttist sem lengist Lijf: Lifandi Drottinn sie vor Hlijf, og Athvarf aa allar Slijdur.

Lijfid til Daudans Upphaf er, allskyns Mootlæti vafid, Daglega burtu deyum vier, Daudlegt er Manns Upphafid, Mid-Tijminn þiaaist Sorg og Swt, sijdasta Skeidid lijdur wt, Otta og Angri kafid.

Midt i Saurnum fyrst myndast Mañ, i Myrkritekur sitt Foodur, leidist so wt med Angri hann,

af Lijfi sinnar Moodur, rotid Sædi er Efnid hañs, enn Boola Vatns Hiervistinn Manns, Endalykt Orma Sioodur.

Jord berum vær i Holldi hier, Holld vort verdur ad Jordu, Jordins trodum jafnañ vier, Jardhws Lijkamir urdu, þeir sem þar Drottna diarfir tveir, (Daudi og Synd) þad brioota þeir, og nijda, so nefnur Furdu.

Hvad er þad reikna Manninn mæ? Maa hañ Þræl Daudans kalla, Brothættast Gler, og Blodru smaa, blaktandi Fisid valla, Voiundarhws hañns Æsinn er, Eymdanna Haf, og Styrjolld þver, Hlioomur, hvellandi Bialla.

Veglegri Nyt er Lijfid lijkt, ef skoka villtu upp henni, med Sannleiks Knijf, þar fiñur skekt, Swa og Madka inni, og sem Epli friid Asyndar, enn hiadna strax og verda ei par, ef hampar þeim Hendi þinni.

Heims Audur, Skraut og Hefdar Par, hellst er þeim Eplum lijkur, ytra dæ fogur Asyndar, enn i Raun Dupt og Reikur, Saal myn hafdu so Heimiñ þa, ad Hiartad festir þar eckert æ, hañs Blooin i Visnan vijkur.

Einn Gud skickadi Orminn þann, er Lundinn stijnga giordi, yfir Jons Spaamanns Hofdi hañ, bratt so uppvisna yrdi, eins so Foreyd at Orma hier, i allt þad setti sem Stundlegt er, so eydist ad einhu verdi.

Med blóomlegum Heim ad bloomgast hier, beist þykir

þykir þeim þvi nædi, med tøpudum honum ad tapa sier, tel eg þad veſt Skadrædi. Stijr vorum Hi-ørtum HErra kiær, ſo hveriu framar þig elſkum vær, og erfum eilijf Giædi.

# 39. Psalmur.

## Um þad, hvad Hiegoomlegur Hlutur ad Verølldinn ſie.

Ton, Eiñ Tijma var ſa Audgur Mañ.

SAAl mijn elſkadu ecki heitt, aumann Heim nie þad hanns er neitt, Ellds Matur allt er þetta, Eilijfum Giædum umn þu betſt, Eilijf Velferd er þar vid feſt, og eilijfs Lifs Unan rietta, gyrniſt ei Maña Metord hier, minſt dædſt ad þvi ſem fall-vallt er, ad þocknaſt Gudi ſie þeckaſt þier.

Læt þier nægia þinn Lauſnarann, lærdu ad þeck-ia þig og hann, Mamon ſkallt midur ſtunda, erfid Reyſa þijn Efi er, er hann þa Farartaalmi þier, þier ber þad þraatt ad grunda, ſaatæk komſtu i Hei-minn hier, hiedann eins lijka aptur fer, Mid Tijma ſoomir ſama Ver.

Ofhladid Skip mun ſøckva ſenn, ſo kefur Aud-ur marga Menn, læt þier þvi lijtid nægia, Fie-Siood ur þinn er Drottinn dijr, i Dauda ſem ecki fraa þier flijr, mun þad meſt Meinum hægia, tap-aſt allt annad Audſafn hier, allra helſt ſa þvi ſafn-ar ſier, i Gudi rijkur ef ecki er.

Aud-

Audur med Onaud aflast kann, Ahyggiulaust ei brwkast hann, missist med Sixt og Sorgum, Fugla-Lyms hefur Ast hanns Art, Anlegt Fidur ef þennann snart, festist þad Manni morgum, Agiarna Mannsins Omak þeckt, eginn HErra er nærsta frekt, bædi fallvallt og Banvænlegt.

Minning Christi, sem Krossfest st, Krossfesti þijna Holldsins Lyst; Sætleik Andans so smacker, Minning Eilijfs Bruna og Bals, Baalid slockur þijns Losta Taals, Krossins þiggiandi þackir, i Andlega Foorn þu offra þann, einka Son þier Hiartkiærastann, Gyrnd þijn, Saal mijn, so heitir hann.

Miog liggur Leid i Himna Holl, hrufoott og Þyrnum hladinn oll, Roosum vaxinn er eigi, af Vellyst þrostkast itri Mann, innri nærist vid Kostinn þann, ad Sorgum mettast megi, Ottinn Drottinns skal deyda þvi, Daudlegt Holld þitt hier Heimi i, fraa þess Klækium so komist frij.

Um Guds Riettlæti þeynktu þraatt, þinn Gyrndardoom so hata att, og Veginn Vellystinga, Hoggorms skadrandi Hausinn er, i Hala Banvænum Eytur ber, honum vill hann þig stijnga, sia til þu kunnir Sigri ad naa, so Lijfs Koronu mættir faa, JEsus gefi þier Giæfu þaa.

## 40. Psalmur.

### Um Gagn Freistinganna.

Ton, Siædskurijkasti Grædari minn.

Sannchristinn Saal þad soomir hier, summtijdis reyna Freisting hier; stødug i Strijdi ollu, Mootgangs Bylgiur þa bijdur þu, betur festir sin Foot þijn Trw, a Christo Hiaalpar Hellu, Bols Strijd, Hreggs Hrijd, ad þa snærir, enn meir færir Avoxt Trwinn, sem al-laufgud Eyk græn ecki swinn.

Ast Manns i Strijdi marka maa, Megnid Trwar so proofast þa, Freistingar fær ad reyna, i Peturs Baat þa Son Guds svaf, Sioorinn æstist so a þa gaf, urdu Skip-Menn Vonvana, Mootkast, Heims Hast, Manni er þetta Reynsla riett, sem Ritning kiendi, Reidi-Teikn ecki af Herranns Hendi.

Meir er oss hætt i Medlæti, vid margskyns Synd, enn Anstreimi, Holldsins Villd Krødsinn kefur, O hvad morgbeyst Aloes Korn, wtrijmandi sialfs Pocka vorn, Drottinn oss opt inngefur, Heims Akt, Fiaar Frakt, Pyrna þessa, hætta hvassa, hann burtsnijdur, so Hveiti goods Aforms hindrist sijdur.

Pad sem Meñ dæma Daudans Bañ, Drottiñ med sama lijfga kann, af Orbyrgd Gnægtir gefur, hvad Hrygd og ·agur holldum vier, Hüggun og Gledi opt þad er, Soott til Smyrsla hann hefur, Kross a, oss þa, kiærkominn i sierhvort Sinn, a sonnu vera, Polgoodir skylldum Piæning bera.

Trwfasti Drottinn typta nu, Tijmanlega, enn sijdar þu, virdstu mier Vægd ad syna, laat Hrijsit

fylgia Mýſkun med, mier aumum ſyndu Fødurs Ged, og næma Mackvæmd þijna, Gud min, Præl þinn, Heimur hatar, Raunir ratar, rienar Kiæti, leid mig i eilijft Eptirlæti.

Samaritane Chriſte kiær, kom mier hælfdaudum Pröſi nær, a þinni Leid liggiandi, lat beyſka Vijn i Synda Saar, ſijdann Innagunar Vidſmiör klaar, Mein og Verki mijkiandi, JEſus, JEſus, þiedu nu, enn Pöl og Trw, lat þverra eigi, Eilijfann Sigur ſo ødlaſt megi!

# 41. Pſalmur.

## Grundvollur Chriſtilegrar Þolinmædi.

Ton, O! JEſu Ønd mijn leitar.

MJn Saal med Þockum þigadu, þan Kroß þig henda kan, ad Drottens Dæme hyggdu, til Dauds var pijndur han, alldrei kann oß til falla, anad ſlijkt ſem Hann bar, af ollum fyrer alla, a ollu pijndur var.

Kullda, Beniar, Klædleyſe, Kool, Hæd, Obyrgd og Smaan, Hrongur, Þorſta, Seypt, Gepſe, Hogg, Brygl, Lyge og Raan, hann vard þvi hætt ad kalla, hardre i Dandans Neyd, af ollum fyrer alla, a ollu ſoddann leid.

Aumt er þvi æ ad heyra, ofkætur Þrællenn er, enn HErran hlytur bera, Hrelling og Neyd æ ſier, Limer læta Glaum gialla, Grætur Hofuded þo, af ollum fyrer alla, a ollu þvijngadur dvo.

Guds

Guds Born kienndu Kiorþesse, Kvelling sæta Job bar, Petur hieck hættæ Krosse, Hæls hogg-venn Jacob var, Mariu Sorger svella, Sonar vid Krossen þa, af ollum fyrer alla, a ollu pijnd-ann sæ.

Med Krossfestum Christner ættu, Krossfesta Holld og Gied, i Tign svo tignast mættu, Tignudum ollum med, og Dijrdlegir æ Dijrdar Palla, med Dijrdlegum leidast heim, af ollum fyrir alla, a ollu leid fyrir Heim.

Þa Christur med Krossins Hamri, klappar Hiartans Dyr æ, strax æ Stundu sæmri, sialltur uppliuktu þa, heyrdu hvad hann kann spialla, sem hefur þu þa fyrir Giest, af ollum fyrir alla, æ ollu hiædur mest.

Gull-leg Krossburdar Kedia, kann best ad-skarta þa, sijna vill Son Guds gledia, sijdarsta Degi æ, Systkinum Sorgar Galla, sialfur afþurkar hann, af ollum fyrir alla, a ollu Kvalning sann.

Siæ þinn Brwdgumann blijda, Blessadann, Sæla mijn, ræma hlaut Raun ad lijda, rioodur af osur Pijn, hann bar og hvijtaun Mialla, þvi Hrakning Sæar og Deyd, af ollum fyrir alla, a ollu Sak-laus leid.

Þu hlijtur Hrelling hafa, ef Herra þijns girn-ist Kior, hann kann Hunang ad gefa, af Hellu Mootlætis hier, ber þvi Blessunar Galla, fro beyska Krossins Root, af ollum fyrir alla, æ ollu blies Drottni moot.

O! hvad beyſk Mootgangs Myrra, margann getur vankiætt, aef oſs Gledi-Viin Herra, gior vort hiď rama ſætt, og leid til Himna Halla, hanns fyrir Blood og Deyd, af ollum fyrir alla, aa ollu Piiſlir leid.

## 42. Pſalmur.

Huggun ſw, ad Madur kuñi fyrir Gudlega Hialp, ſtodugur ſtanda allt til Aſkiloka.

Ton, Giædſkuriikaſti Grædari miñ.

Hwer mun koma ſw Nadar-Stund, nær mun eg faa og ſiaa þinn Fund? JEſu Brwdgumiñ bliidi! Nær mun mier unnt, Elſkugi minn, i ockar Brwdkaup leidaſt inn, Heims wr Utlegd og Striidi? Gud minn, Gud minn, þu mig leys, wr Holldſins Hreyſi og Heimſins Voda, leif mier þitt Auglit uñ Eilijfd ſkoda.

O! hvad hræddur eg aumur er, i Leyrkierum þvi breiſkvum ber, minn Trwar Fieſiood friida, Saal og LiikamaSynda hætt, ſegi eg þau Kier, ſem nu hef rædt, eitt vill þar odru ſtriida, Gud minn, Gud minn, Satan Refur, Grid ei gefur, grimur ſlægur, Aſtvinum þiinum er of Ovægur.

Eg hrædiſt liika Heims Okior, Hreckviis og Oheil Verelldinn er, hver kann hier Rend vid reyſa? hvort ſem mier genaur med eda moot, miinum ſtofnar þad Hroſun Foot, ſwnt hata, ſætt vil kioosa, Gud minn, Gud minn, hver vill nyña, Klaklauſt

kuña,

kunna, komast hiedann, Ohættann Veg fæ eg ecki siedann.

Verdleik mijnum eg vijsa fra, Verdleik Drottins eg treysti a, vijst mun hann Veg minn beina, hanns Rad stadfost og eilijf er, alldrei kann hun þvi bregdast mier, eg sæ þad alltiafnt reyna, Gud minn, Gud minn, Hondinn þijn, þu Heilliñ mijn, þwi Hættu leidi, Ovina Umfall so alldrei meidi,

Sæluhialp þa sem Gud gaf mier, Grundvallad hefur i Hiarta sier, af þvi kann alldrei skerka, ytheллt Blood JEsu æsamt mun, og Sacramenta Innsiglun, adstidia einnig lijka, Gud minn, Gud minn, Von mijn er, nu oll i þier, eg eingu kvijdi, Harmkvæli nockur þo Holldid lijdi.

Frelsarinn hefur þu fundid mig, fyrr enn eg kuñi hitta þig, Þvi muntu Vernd mier veita, eingvu Ohægra er þad þier, ad geima þad sem fundid er, enn ad Ovijsu leita; Gud minn, Gud minn, sem Myrkri eyddir, Lioss til leiddir, Lijfs Braut riettta, lat mig ei aptur i Diñu detta.

Trygda Fesiood mier tærir þu, Trwar Hond mijn opt veiklast nu, getur vidtekid valla, annast þu hennar Orku Brest, a þier lat hana fa sig fest, sterklega Æfi alla, Gud minn, Gud minn, þier vil eg fws, mitt Hiartans Hws, til Hvijldar veita, Audmiwkum Anda kannt alldrei neita.

Trwar Augum eg tilldra nu, til þijn, Drottinn! mig aumka þu, Overdugum best biarga; Oforþient Myskun, er riett Rad, Omaklegum sem verdur

 tiad,

tiaad, og gefinn ept Heim arga, Gud minn, Gud minn, Heill mijn er, þa oll i þier, þvi orugg blijfur, greidist þier gott Lof, Gud eilijfur!

# 43. Psalmur.

## Um Daglega Umþeinking Daudans.

Ton, J Blæu eiki e: byrgdur i Molld.

HEntu æ Daudans Vinur kiær, Vonum fra mär hann stendur nær, vid hvorn Dag þeinki Hugur þinn, hann mun vera sijdarsti minn.

Hvad sem þu giorir, hugsa ber, hvort soddann Ydia hæfdi þier, ef i þvi Verki ættir þu, andast þa strax og dæmast nu.

Lijfi fieckstu ad Laani næd, Lijfs hefur þu ei Eignar-Raad, nakinn komstu i Heiminn hier, hiedann eins lijka aptur fer.

A hverium Degi deyr þu hier, Daudann hvor Lijfs Stund færir þier, allt hvad hier eykst vid Efi Manns, allt kortar þad Lijfdaga hanns.

Þess leingur sem vær lifum hier, Lijfid þess styttra eptir er, um þad sem einum ætfram bar, eptir þvi minna Leidar var.

Læt fraa þier deya Lesti fyrst, Lijfid ædur en fær þu mist, hvor sem deyr vondum Vilia frææ, vijst lifir Gudi i Dauda sa.

Adam gamla af ollum Maatt, æ medann lifir, deyda ætt, þa mun Drottinn nær deya fer, Dæsamlegur lifa hiaa þier.

Daud=

Daudinn flytur og færir Mann, fra Hiegooma i Himna Rann, i hvoria Att sem Eikinn datt, er hun þar fyrr, þad trwi eg satt.

Ef þu ihugar opt og þratt, ad endilega deya matt, Adhalld er þad og Oesok þier, ad akta lijti þad sem Heimsins er.

Athuga þu hvad Andlaat Manns, asmyndad getur Limi hanns, þetta skylldi þig fæla fra, forboñud Verk ad gyrnast a.

Saal og Lijkama sviptur þad, sann-naudug verda skiliast ad, Andarslit hver sem athugar, slika mun siydur Syndirnar.

Sa sem med vondri Synda Gierd, sier hefur stofnad Andar-Mord, i grimmum Daudann gengur hann, i Glotunar Stad fyrer Ellimann.

Þeir einir hlioota Himna Vist, hier nu lifa i Gudi fyrst, þeirra Lijf Drottinn eflaust er, i Trwnni sem hann binda sier.

O Drottinn! Gef oss ollum nu, innlijsast þier med sannri Trw, lijka deya og lifa þier, losa siydann med Engla Her.

# 44. Psalmur.

## Huggun fyrir þa sem missa sijna Astvini.

Ton, Hærsta Hiaalpræðis Fognudi.

MIn Christinn Saal! umhugsa fyrst, ad Dauda-Stundu JEsum Christ, hvad Ogir Daudans allðrei kañ, osbiooda þeim sem þeinkia uñ hañ.

Þeisst

Beiſkt Vatn i Mara miog ſætt var, þa Moyſes Tried i Brunninn bar, þad Lijfſins Tried er Drottinn dijr, ſem Daudans Remmu i Sætleik ſnijr.

Sæ Edla Kviſtur, allra Boot, upprunninn er af Jeſſe Root, hvør ſem geymir hanns heilog Ord, hann ſmackar alldrei Saalar Mord.

Eymd Mannſins deyr, enn ecki hann, er Daudann Leid i Himna Rann, Afgæingur hañs er Endaing Kijfs, og Fæding holl til Eilijfs Lijfs.

Ecki miſſum vier Aſtvini, undann oſs þo þeir ſendir ſie, fyrir Sorgir þeir Fognud faa, fraa Myrkrum inn i Liooſid gaa.

Yfir Lijfdaga hættaſt Haf, i Høfn Daudans þeir komaſt af, leyſtir fraa allri Swt og Sekt, ſyrgia ſkulum þa ecki frekt.

Hvijtann Skrwda vid HErrans Hlid, hafa þeir nu og Paalma-Vid, Sorgar Klædi ei ſoomir þa, fyrir ſoddann Menn ad taka uppaa.

Øll hefur þeirra Augna Taar, afþurkad Drottinns Hondinn klaar, Lambſins Stooli þeir liſa hiaa, lioomandi ſijngia Gloria.

Allskyns Hlioodfæri hlioma þar, Horpur ſlaandi Gyll-legar, hiaa Englum Guds ſier una þeir, ecki ſkulum þa graata meir.

Laattu þier ecki gremiaſt Ged, Gud þo taki hø ad hefur oſs lied, ef þu miſſir þinn Aſtkiærann, eitt Elſkara ſnart finnur hann.

Alijt ei þad þo adſkilied, athuga framar Samveried, ſem eptir kiemur eilijft þo, i Andvaralauſ-

ri Sælu og Roo.

Andlaat siit virdir Abatann, Upprisunni so trwa kann, hverrar Jmyndan aughoos er, Edlis Skapning i Heimi hier.

Eydist Heims Lioos ad Aptni Dags, uppreñ ur þo ad Morgni strax, Grasid visnar þa Vetrar ad, a Vorinn aptur bloomgast þad.

Af Eikum falla Avextir, aptur þo vaxa bloomleg ir, og ef Sædid skal Friosgun faa, fyrst i Jord unni rotna maa.

Þa Phænix hefar Æfi endt, i eiginn Hreidri sig siaalfann brendt, af Osku kvikna aptur þar, ung ur med Fiadrir gullegar.

So endurnijast allskonar, eiginn Foreydslu þad sem bar, alldrei skylldi neinn efa þa, Upprisu Holldsins Dooms Dag aa.

Þu meintir kannskie, Ment og Fe, mektast hef di þinn Astkiære, i Guds Rijki audugur hann, alla Speki vel skynia kann.

Hædsta Tign þo hier hefdi gist, i Himnarijki er betri Vist, DRottni hefur so þocknast þad, þinn Vilie skal þar hneigiast ad.

O! DRottinn þu tookst aptur nu, Eign þijna sem mier liedir þu, þitt Nafn heilagi Herra klaar, hædst sie lofad um eilijf Ar.

# 45. Psalmur.

## Um þann sijdarsta Doom.

Sœlum gafst Fognudinn, Illvirkinn oll hiñs Arga, og allt hvad braut Rœnglœtur, þad virdtist þu ad borga, þo riett Sannheilagur.

Hœrsti Gud helgi Andi, Hiartad mitt lofar þig i Dag, sem vel ert vardveitandi, og verkar allann minn Lijfsins Hag, þu giorir gladvært Siñi, giefur Roo, frædir Sœl, og audgar Atvinnunni, allt jafnt vid sierhvert Mœl, veitir Velgeingni alla, Vodanum fordar frekt, ei lætur uppa falla, añad enn bærilegt.

Nu lidinn Nœtur Tijma, Nœdinn þijn hiellt mier Lijfid vid, og virdtist vel ad geyma, og veitti mier ad sia Dags Lioosid, Ast og Umhyggiu þijna, og Almættis hœblessad, um alla Æfi mijna, eg skal sannprijsa þad, Gud Fadir, Gud Lausnari, Gud goodi Stjoornarinn, bid mig i Dag bevari, og blessi nu hvert eitt Sinn.

Eg veit þier alldrei fyrnist, ad Ondina gafstu sialfur mier, gief mier þvi þad hun gyrnist, Gledi og Velferd þetta er, Lijfid mier lientir lijka, lientu þvi Uppheldid, eg flij til þess Forrijka, fyrst eg þarf Hiœlpar vid, Embætti mitt ma heita, milldann ad bidia þig, eñ þad er þitt ad veita, þar fyrir bænheyr mig.

Hœtt upp þu sialfur situr, sier þo œ þad sem lœgt er nu, þu ert vollduguur vitur, vollduglega þvi hiœlpar þu, berstu Barœttu minni, blessa þu Blessun mijn, og allri Umhyggiuni, Umhyggia stioorni þijn, styrk þu best miñ Styrkleika, stodandi mig

uñ

um allt, Verk mijn verka þu lijka, og vertu mier eiñ Gloravallt.

O Gud i Himna Hollu! heyrir þu Ben og Nauðsyn sier, alldeilis eg med ollu, allann mig i Dag gief eg þier, Ost og Andvarpan mijna, upp lattu naa til þijn, Ast og Naad aptur þijna, ofann stijga til mijn, lattu mig meiga kaña, Myskunar Dimpid þitt, og Grundvallann Sætleik sanna, sem er Hiaalpræðid mitt.

Hiaalpa mier HErra goodur, hiaalpa mier Jesus Brooder miñ, frida mig vid þiñ Fodur, Fridhelgann gior þu Prælinn þinn, O! minn Raadgiafi rettur, Raad mitt annastu nu, Horn, Stioorn og Hlijfdar Klettur, og HErra mijns Lijfs ert þu, at Tijma Ogiæfunnar, Olucku snu fraa mier, Ovin þa einginn nunnar, ad slijta mig fraa þier.

O þu goodi Guds Kraptur! giættu mijn so eg rasi sijst, Vegur er vijdur skaptur, vandratad Hlid og mieg Ovijst, jeg er jardneskur Madur, jeg gyrnist Himininn, eg er hier opt Ogladur, eg vil þvi siaa Gud minn, vijsa mier Vegn þijna, vijsa mier riettann Stig, og greid þu Gotu mijna, Gud minn, so finni eg þig.

Eg flij at Arar þijnar, undann Hond Sarlar Mordingians, legg þu um Lendar mijnar, Lynda og Bryniu Sannleikans, Brioost Skiolid fyrir mig færdu, Fridar Skoom lat mig naa, Hiaalpræðis Hiaalmi tærdu, Hofud mitt set hañ aa, Styrkleikans Fat mier færdu, fyll Naad mitt Hi ast

ans Kier, Trwar Skiolld lijka liodu, lat han os Hendur nier.

Sverd Andans einnin lijka, O Drottinn! virdstu mier ad fa, ad efna Orustu slijka, Ohræddur mai eg voga þa, lat mig sterklega stijma, Strijds Lokinn hrepp i good, og sigra alla Tijma, einkum fyrir JEsu Blood, og so Daginn wtenda, allan vid roosamt Gled, sijdann i Lijfs Hofn lenda, og lofa þig Englum med.

## Føstudags Kvølld Psalmur.

Med sama Lag.

ÞU Gud i þijnu Rijki, þier einum ber Kvølld-Offur mitt, er þinn vyst einginn Lijki, allt yfirgrijpur Høfud þitt, hvers Asiona allt gledur, oll endandi sijn Heit, allt heyrir Eyrum medur, allt sier mitt Rad og veit, hlijfandi hverskyns Follum, Hond þijn ei styttast ma, alls Goods unnandi øllum, alldrei vijkur oss fra.

Þu hefur þinni Hendi, þennann Dag mig so Leidtogad, og verid so vardveitandi, ad verdur þad ecki wt talad, Auglit þitt Gledi giefur, Gott allt veitandi er, þitt Nadar-Hiartad hefur, hvorgi vikid fra mier, þvi ber nu þier med riettu, þetta Kvølld Offur mitt, og Munn-Foorn Mali sliettu, mest fyrir Hialpræd þitt.

O mitt Lijf lang vinnt eigi, lijdandi hast enn blijfur sijst, þad hefdi a þessum Degi, bornad sem Hey og visnad vijst, og hiadnad eins og Boola, eda Var

Elldi

Elldi i, og Vefarans Vindu Rööla, vikid a burt sem Skÿ, og kulnad eins og Neÿsti, eda Skuggi sem þver, hefdi ei hann sem treÿsti, HErrann miñ biargad mier.

Hier offra eg Þackläti, þar fyrir DRottinn, Hiälpinn Manns, ad eg komst enn med Kiæti, klaklaust wr Hondum Jagarans, Lijf mitt eg hlotid hefi, Herfaang lijkast nu, þad er vÿst eingiñ Efi, ad ollad hefur þvi þu, Nääd þijn og Ästar Elldur, Aund minni hiwkar ad, og Lijkaminn Heilsu helldur, hollast er Manni þad.

Däsemd þijn DRottinn velldur, ad drack eg ei Vim til Sodoma, og hefi ecki helldur, etid Braudid til Gomorra, ei Vatn a Eydimorkum, ecki fallid fra þier, nie tapad Trwnadi sterkum, enn treÿst þvi sem midÿr ber, sijst þo Sääluhiälp glatad, og Samvitsku goodri nu, nie skadlegt Skipbrot ratad, a skiærri og hreinni Trw.

Fyrir Heilbrygdi holla, hef eg nu enn ad þacka þier, Limanna Adstod alla, og adrar margtiedar Velgiorder, Elldinn, Vind, Fot og Fædi, ferfættar Skiepnurnar, Himin, Jord, hennar Giædi, og hitt allt sem behagar, O! hvad er aumur Madur, O! hvad er Sonur Manns, ad milldur Gud mest aktadur, minnist og vitiar hanns.

Alla um Æfi mijna, er mier þvi skylldt ad lofa þig, og prijsa Elsku þijna, ætijd medann hun sparar mig, Giædska þijn hää mää heita, hää er þijn Elsku Gnoótt, af henni mier virdstu veita, Værdar Sv=

efn nu i Noott, og unna mier ad sofa, Asæknir Heims og Hels, gior mig einn Obadia, i Hwsi Jesabels.

Og Joseph allvel tryggvann, i Hofgardi Pharaonis, Eleasar eins dyggvann, i Abrahams Byso hendi ei Slis, og ad ege einnin verdi, i Noott sannblessadur, og hvad mier giefa giordi, Gud minn almattugur, Svefn-Roo sæla og sæta, sendtu og veittu mier, laat ei Olucku mæta, Ond mijn vaki i Þier.

Þeim Jonæ Synda Svefni, sofa laattu mig ecki þo, sem er eitt Pekis Efni, wt ad kastast i Heliar Sioo, ad Leviathan forni Fiandi, faai mig svelgdann ei, nie Samsons Svefn sofandi, sigri Vellysta Grey, og missist Orkann gooda, Andi þinn lijka med, eda falli i Fiorraads Voda, fyrir Sælliijsis Sied.

Laat mig og ecki henda, Olucku Svefn hanns Eotychi, og falli i feikna Vanda, fraa þinni Naad enn Syndir i, þadann i þijna Brædi, þadann i Giæfu Hrun, þadann i þvingt Volædi, þadann i Fordiorfun; geym mig vid soddann Svefni, sem hafdi Isboseth, er af þui sama Efni, i Reckiu Lifid litt.

Hond þijna hvor u Sinni, Herbergi laattu vera mitt, enn Sæng mijn þar inni, allra umkasta Frelsi þitt. Otta þann einninn lijka, anka Dyravord minn, ad ei kunni upplwka, Anskoti Mordingiñ, hvorti Dyr opnar eigi, inn so hann komist þar, ad grim-

grimur gyrugur meigi, granda mier ecki par.

Sisser Svefninn vestann, siist lættu Drottiñ henda mig, er Jael i Hrosi hystann, hun liet rata a Daudans Stig, ad ei vakni upp aptur, i Kvalir kominn inn, eda Svefninn so skaptur, samteingist Dauda minn, uppliwk þu Augum mijnum, af Glæpa Svefni hier, ollum eilijfum Pijnum, einn Guds stijr þu af mier.

Lat mig so sijdann sofa, Svefn Roosemdar og Riettlætis, og i þier Hvijldir hafa, hendandi alldrei nockur Slis, Uppvakning einninn hlioota, allglada og Velfarnan, til Heilagleikans Heeta, hreiñi i Fullkomnan, og so ad Ockum falla, eg meigi lofa þig, og prijsa uñ Eilijfd alla, Amen, bænheyrdu mig.

## Laugardags Morgun Psalmur.

Ton, JEsu Christe þig kalla eg ꝛc.

HVorninn kann eg nu Naudberinn, Nad þiñi DRottinn leyna? Hvornum kañ þeigia Muñur minn, uñ Myskunar Giæt sku þijna? þviad hun stoor og eilijfer, i Noott mætti eg þad reyna, hvad gloggt mæ greina, ad hun so hlijfdi aumum mier, aungra kiendi eg Meina.

Lijkamann hefur hun verndad vel, vel giætt ad Saalu minni, so eg hef hvorki Hrygd nie Hel, hlotid ad þessu Sinni, eg svaf, eñ Nad þijn vakti vijst, veitti Umhyggiu rijka, og Lidsemd lijka, wt af henni þad eflaust hlijtst, ad eg fieck Blessan slijka.

Hun hefur mier so halldid med, og hulid seint ødrum Skilldi, ad mig hefur ecki Skadi skied, af Skei-

 dum,

dum, Vatni nie Elldi, i Myrkrum Eikinar Liooſid mitt, Lijf i Daudanum mijnum, med Sætleik ſijnum, þetta Lijfid og Liooſid þitt, liettir mier ollum Pijnum.

Þad er ad þacka þinni Naad, þu Drottiñ allsvalldandi, Elldur hefur mig ei afmaad, og Vatn ordid ad Grandi, Loptid hefur ei eitrad mig, ei kienni eg Sogttar parid; þvi var ſo varid, og onnur Olucka Ovarlig, enginn inier fyrirfarid.

O Naad! O Naad! O Giædſku Gnott! Guds DRottins mier til Handa, ei hefur Satan enn i Nott, orkad mier neitt ad granda, ei helldur Daudinn uppſvelgt mig, Ov: nir ſnortid eigi, ſo meiddann meigi, enginn Ogiæfa Oſvarlig, umſturnad mijnum Vegi.

Fyrir mig ſtrijddi Hetiann hord, hvad nu er riett til Sijnis, hier er DRottins og HErrans Hiord, þeſs himneſka Gedeonis, hier er ſu Borg Oſigranleg, og hættulaus Frijſtadur, þvi geing eg gladur, hier er Kaſtali hvorn einn Veg, herlega ummuradur.

O Naad! Naad, Naad good, Giædſku Gnægd, gietu af R..d: mijnu, la.t mig enn finna Vernd og Vægd, vijst i Augliti þijnu, a þeſſum Degi u. þu mier, elſka Myſkun hlioota, og Naadar nioota, Ov na minna Ok.d hier, allt virdſtu ſundurbriota.

Naad þ..n DRottinn og Nafn bleſsad, nu verdi Saalu minni, himneſkt Lækninga Hwſid þad, hvar eg Lijfs Vatnid finni, Lyſtigardurinn lijka

sär, er Lijf-Grosinn inn spretta, og Ro-semd rietta, Ast og Hreinlijfi er þad þa, O Gud! veittu mier þetta.

Hun sie og einnig hrelldum mier, Heilsu Lindinn ągæta, og Lækur sa sem leidir af sier, Lijfsins þad Vatnid sæta, hvar af mitt Hiarta Friodsgun fær, og frijlega endurnærist, þa sumpart særist, og þegar Þrauta Þorstinn slær, þyn Naad yfir mier hrærist.

Nądar Fiehyrdslu einginn einn, upplokid getur Mennum, utann hun sialf, Edla Gimsteinn, af Guddooms Kiærleik sonnum, hvor hefur Blessan hlotid þa, ad hun hafi veitt eigi, a vorum Vege, eilijfri Dijrd kann einginn na, an hennar, satt eg segie.

Gef mier nu þessa nija Naad, Nądar þurfandi Manni, annastu mig og allt mitt Raad, Elsku Brunnurinn sanni, helgi, gledie og hlijfi mier, hun og lijka uppfrædi, og Kostum klædi, so Koronu Lijfs sem eilijf er, um jnd'r hreppa nædi.

Himna-Dogg þinni hell þu a, Hiartad mitt Nądar þyrsta, eg kann forganga alldrei þa, eck h-lldur neitt bresta, laat þu hana þar vokva vel, visst P-antan R ettlætis, og alls Agætis, og annad fle-ra, sem eg þier fel, einkum Dygd L-jt-lætis.

Naad þijn Drottinn mier leggi Lid, Limsku Satans a mooti, og so Herklædi alla Hlid, ad eg Sigurinn hlioti, hun sie lijka mijn Hlijfd i Dag, hirdrandi Saal og Lijfi, so blessad blijfi, og so bevari Eign

og Hag, Ogæfann burtu drijfi.

Naad þijn einnig nuer vijſi Veg, og verndi a þeſsum Morgni, hvort ſem wt eda inngeing eg, A formi mijnu ſtioerni, allt hvad giori og giora læt, i Gaungu og Stodu minni, wti og inni, farſæli þad þijn Myſkun mæt, med hollri Naalægd ſinni.

Vertu mijn Hiaalp og Hugar Hægd, hvorn Tijd i øllum Vanda, Saaluñi miñi ſyndu Vægd, Satan laat alldrei granda, leid mig ſo øllum Jllſkum fra, i Rijki Dijrdar þinnar, frij Mædu miñar, hvar eg megi þig ſiaalfann ſiaa, i Sælu Eilijfdarinnar.

## Laugardags Kvølld Pſalmur.

Med ſama Lag.

LOf ſie þier Gud minn, Lof ſie þier, Lof ſie þier minn Skapari, þitt Nafn bleſsad og eilijft er, allra Hluta Stioornari, Lof þitt nær ſo uñ alla Att, eins og Jordinn wtſtendur, a allar Hendur, og ſo gengur þijn Hrooſun haatt, ſem Himininn er vijdlendur.

O! hvad þijn Naad er margfolld mieg, mikla og Vaaſemd þijna, fyrir hana hef enn nu eg, endad Dag-Reyſu mijna, O! mitt Armædid auma Lijf, O! mijna Sorgar Daga, ſem hæpid haga, hvad er þad utann Eymda Kijf? Og endaſt ſem leſinñ Saga.

O! hvad faaniitt er Heimſins Hopp, hvar til margann fær laungad, Luckann fleigir oſs eins og Sopp,

Sopp, ovart hingad og þangad, Herbergi þad er Hættulegt, hvar Satan er stioornande, med Glæpa Grande, Veitingu hanns og Vellyst frekt, vijst er Topun fylgiande.

J þessum Heimi erum vær, eins og a Brim-Sioo vijdum, morg Rauna Bylgiann rijs og slær, rijdandi ad baadum Sijdum, Hættu Klettar og Hafka-Skér, Hvassvidri Freistingaña, sem Byrinn banna, Daudiñ lyka fyrir Dyrum er, sem dregur sig inn til Manna.

Eg a Skipkorn i Olldu Sioo, Anstreimid Lijf er þetta, enn þu hefur þad annast þo, og Embættis Stijrid rietta, Lucku Segl mitt so þandir þu, þijnu med Naadar Yndi, sem Vestann Vindi, ad gat eg Hlaupid efnad nu, er mier þvi gladt i Lyndi.

Þu hefur mier so halldid vid, og hiaalpad a þessum Degi, ad Uggaleysis Akkerid, wtkastast þurfti eigi, þvi hef eg alla Orsokkil, ad syngia hier og færa, Skips Vijsu skiæra, Heidur þinn Gud eg hefia vil, hærst Lof sie þier og Æra.

Þad er ad þacka þinni Naad, þu minn Kongur og Herra, eins Dags Reisa er Enda kliaad, allt-jafnt kortast þad verra, einum Degi er eg nu nær, Andlaati og Grofinni, i þki Lausn miñi, oll Armæda snart En a fær, eg gled mig i Voninni.

Mannsins Lijf lijkist Vedhlaup vid, vijst man eg þetta sanna, vort Lijf geysar a Grafar-Mid, fra Grof til Himna Rann, i þvi Hlaupi mier hefur þu, halldid a riettum Vegi, so eg datt eigi, helld-

ur ad Ved og Vinning nu, Vonsterkur hreppa megi.

Enn framar, DRottinn, eg bid þig, aliijt þu Naudsyn mijna, komandi Noottu nu lꜳt mig, Nꜳd og Hiꜳlp finna þijna, unn mier ad sofa Ug-galaust, Olucku lꜳt ei granda, nie illa Anda, enn Sꜳl og Lijkami heil og hraust, Heppinn megi upp-standa.

Heimsins Roosemi hugdi eg nꜳ, hana fann eg þo eigi, Heimsins Gledi mig gyrnti fꜳ, g eck hun frꜳ mier a Vegi, Heimsins Vellyst eg þrꜳdi þꜳ, þessi var beyst ad finna, og swo ad sina, Heimsins Vin-gan mig fijsti fꜳ, enn Fiandskap mꜳtti ꜳvinna.

Enn hiꜳ þier Drottinn einum er, oll Roosemd Sꜳlar minnar, og Andans Sadning sem alldrei þver, af Nꜳgd Myskunar þinnar, lꜳt þu mig hvijl-ast þa i þier, þu Brunnur Rooleghejta, þad vird-stu veita, Gledi og Fognud gef þu mier, Gi-ꜳdsku þinnar eg leita.

Heimsins Velgeingni, Hefd og Makt, Heims Glaumur med Rijkdoomi, Heimsins Dꜳlæti Æ-ra og Akt, allt er þetta Hiegoomi, lꜳt mig þvi ha-fa Lyst i þier, Luckusæla Vernd hliioota, og Nꜳdar niioota, nær eg þig hefi nægir mier, noog er þa gott til Boota.

Jacobs Svefni mig svæfdu nu, siꜳandi Him-na Stiga, og Engla sem stijga upp lietst þu, og ofañ synilega, og Samuelis Svefni hiꜳ, Sꜳttmꜳls Orkinni fordum, med skignum Skordum, ad Leyn-

dardoom þinn lyfti æ, lijfi þijnum Velgiørdum.

Efter Svefni svæf þu mig, sem læ i Tresins Skugga, Engill Guds honum synda sig, sediandi giørdi hugga, og Achabs þa i Secknum svaf, sanna Idran giørandi, og vel sig vandi, og Josephs þa hann wtgeck af, Egypta rijku Landi.

Laattu mig eins og Abisag, æ Davids Skauti sofa, i JEsu Fadmi hægann Hag, Hvijld og Bevaran hafa, enn þa eg hefi wtsofid, og þinar Geimslu notid, og Hresing hlotid, læt mig so heilann vakna vid, vertu mitt Hlijfdar Slotid.

Enn ef Noott þessi eflaust æ, ad vera mijn sijdarsta, lat mig i Fridi fara þa, og finna Hvijld voolegasta, þar sem Armæda einginn er, enn Englasaungur fagur, og heppinn Hagur; og Jubil Ar sem alldrei þver, eilijfur Sabbats Dagur.

Enn æ medann þad ecki sker, og undanndregur þetta, i Grof laattu mig hvijlast hier, hun er mitt Slotid rietta, Ovinir kunna upp fra þvi, eingann Skada mier giera, nie Bols til bera, helldur munu þar Mædu frij, mijn Bein i Fridi vera.

Allt þangad til ad uppbyriast, Endalaus Sabbats Dagur, og i þier DRottinn wtendast, allur vor Rauna Hagur, og vier faum þig siaalfann sied, sijdann þier ad behallda, og gott Lof giallda, og so þig vriisa Englum med, Amen, um Allder Allda, Amen.

* * *
* *

Missi

# Misseraskipta Psalmar.

## Bænar Offur i Jñgaungu Sumars.

Ton, A ein̄ Gud vil eg trwa.

NU skal enn i Guds Trausti, inngaunga nijann Arsins Hrijng, Lijfsins Hertogiñ hrausti, hafdu Gæt aa oss allt um̄ kring, ferska Blessan, ferskt Sumar, færa laattu oss nu, Satans Araaser aumar, allar forhindra þu, laat nija Nadar Strauma, nijkomna friðofga Tijd, virdst oss vernda og geyma, vesælann Islands Lijd.

Upphef þu Augunn bædi, yfir þijn eiginn Handa-Verk, gefdu oss Fot og Fædi, fram̄leidi oss þijn Hondinn sterk, laat vel i voru Landi, Vijngard þiñ blomgast hier, sannri Christni safnandi, sialfum til Dijrdar þier, klæd oss Kyrtle Riettlætis, krijn Arid Friðofsenie, wtfossande Agiætis, yfir oss Nad þijn sie.

Gyllini Fridenn gooda, giefdu oss enn i Lande hier, Af Jordu Gras og Grooda, Gagn Siarfarens og Heilsu Kior, Blessun og Audlegd alla, Andar og Lijkamans, Oss laattu eñ tilfalla, Abwum þessa Lands, sijdann i Nadum nioota, Næringar Lijfs og Auds, Pa skal ei Pöckenn þrioota, Paagu vors Daglegs Brauds

Kongsins Tign stodug standi, stid þu Drott'nn hanns Rijkis-Raad, Frids og Friðofgunar Andi,

for-

forsorgi þetta Isa-Laad, Kyrkiu Valld, Christ-
enndoominn, Kienning, Trw, Lijf og Fior, lifandi
Lijffins Livomm, lаt þad stioornasti hier, Inngang
og Utgaang Manna, oll Verk og Ferdalag, Bw og
Bygdir Mannanna, blessa þu Noott og Dag.

Alla Lands Yfir-Herra, innlæstu þinni Stioor-
nar Hond, Eign og Embætti þeirra, og allar Saal-
ir-um Christinn Lond, Eyland þetta ummwri, Al-
maattug Hond þijn sterk, oss so hier eing inn giori,
Ahlaup nie Skemdar Verk, lаt þitt Velldis Bod
vera, vorn Skiolld aa alla Hlid, þa mun alls eing-
inn þora, oss spretta Fijngri vid.

I Stioorn og Umsiaa vorri, ytri og innri Frid-
ur sie, ytre i Hondlan hverre, hinn i Samvitsku
Rooseme, enn saa eilijfi Fridur, oss gefist Himnum
aa, innlæstir i hanns Ydur, allir verdum vier þa,
Heill vor, Vernd, Lijf og Veria, vertu i Landi hi-
er, so skal Sumarid byria, sannur DRottinn i
þier.

## Packlætis Offur i Utgaungu Sumars.

Med sama Tón.

OK sie þier Drottinn dijri, Daga og Allda
Stioorninn trw, haa Sumar Tijminn hijri,
hann er kliaadur aa Enda nu, O! hvad morg Edla
Giædl, oss veitti Naadinn þijn, enginn þad And-
legt Sædi, Ordid þitt hreint skijn, klaar Trw
med Kyrd og Fridi, Christinndooms Medol oll,
Umsioon af Engla Lidi, enn eingin stoor Slisa Foll.

Mid

Med miog margfolldum Giædum, Miskun þinn kriindi Sumarid, Feitleiki af Himna Hædum, hefur Jordina ádropid, Land og Sioer Gagn og Grooda, gefid hefur oss nu, Ahlaupi illra Þiooda, oss hefur fordad þu, yfir og undir Stiettir, Asaa þijn millda Hand, i þijna Umsioon settir, almennelegt Tilstand.

Þier giorum Þackir færa, þijdi Fadir af Hug og Trw, Lof þitt eflist og Æra, vid allt þad sem oss veittir þu, enn hvad a hvorium Deg, hofum stiggt Velldi þitt, minn Gud, minnstu þess eigi, Misverkinn oll gef kvitt, læt oss ei Glæpa giallda, Giædsku streymandi Foss, helldr virdstu framhallda, Hiælp og Naad samt vid oss.

Lof sie þier Fadir friidi, fyrir þinn Son sem doo aa Kross, blessandi Lond og Lijdi, Læsing Atvinnu upplaukst oss, fyrir Lijf og Lucku alla, Laan, Heilsu, Vernd og Fie, er þu lietst oss til falla, Æfinnleg Dijrd þier sie, so skal Sumarid enda, syn oss þig Naadugann, og virdst oss Vetur senda, vægann og farsælann.

## Bænar Offur i Jnngaungu Vetrar.

Med sama Lag.

KOminn er kalldur Vetur, komdu til med oss Drottinn minn, Lijf vort Eign og Adsetur, annastu Manna Skaparinn, Ofridi illum Dauda, Olucku, Lopt Flugum, Ovina ollum Voda, innra Manns Sturlunum, Hungri, Strijdi, Hall-

Æri,

æri, Hardindum, dijrri Tijd, forda oss Fadir kiæri, fylgi oss Stioorn þijn blijd.

Gefdu oss goodann Vetur, gefdu oss haastæd Vedra-Foll, gefdu oss gott Adsetur, gefdu oss Þarfa Medol oll, annastu Eckiur allar, annastu Fodurlausann, annast þaa ꝏ þig kalla, annastu Vanfærann, unn oss þitt Ord ad læra, unn oss ad fordast Last, unn oss i þier ad vera, unn oss ad leidriettast.

Blessa þu Bygdir Manna, blessud Velferli laat oss faa, blessada Brauid sanna, Blessun Guds Orda unn oss na, blessa vor Brioost og Sinni, blessa vor Verk og Maal, blessa vor Bæa Kynni, blessa þu Lijf og Saal, blessa þinn Barna Skara, blessadu Menn og Hws, blessa oss og bevara, blessade Gud JEsus.

Her-Sveit af Tignar Trooni, trwlega laattu giæta vor, sem oss ad ollu þiooni, so alldrei gaungum nein Slisa Spor, innri og ytri Fridur, Eining i hvorri Stiett, halldist oss einnig vidur, og allskonar Hondlan riett, geym oss fra Glæpa Follum, Grandi, Farri og Neyd, sijdann vor Eymduin ollum, i eilijft Stundar innleid.

## Packlætis Offur i Utgaungu Vetrar.

Med sama Ton.

SEtur er enn ꝏ Enda, Eilijft Lof sie þier Fadir kiær, þu lietst oss Lucku henda, og lagdir þad til em þurfstum vær, þu hefur allt vort Efni, annast

O vid

vid Faari og Naud, verndad i Voku og Svefni, veitandi Daglegt Braud, varnad Voda og Follum, Vedrum og Hwngurs Pijn, afstijrt stoor Slisum ollum, og stodad vel Borninn pijn.

Eing nn kann yfirvega, alla Blessan sem veittir þu, Andl ga og Stundlega, a þessum lidna Vetrinu, Lijf, Heilsa, Heill og Hagur, Hræring Andleg, good Kior, Framrars og Fridar Dagur, farsæliſt oss i þier, þu geymdir oss vid Grandi, gafst oss þitt Engla Lid, yfir oss varst vakandi, og verndadir alla Hlid.

Packlætis Offrid þyda, þiggdu nu af oss aptur a moot, fyrir Ast og Astar blijda, oll Velferli og Nadar Hoot, einkum fyrir Son þinn sæta, sendann til Lausnar oss, þu lietst hann borga og bæta, Brotinn vor oll a Kross, i honum allt h d gooda, oss ve ttir Drottinn þu, þier giorum Packir blooda, þad er vort Offur nu.

Hver kann ad tia og tijna, Tegundir þinar Velgiordar, eda med Ordum syna, alla Gnoott þinnar Myskunar? Auga þitt ad oss gaadi, Eyra þitt heyrdi oss, Hondinn þijn hialpa nadi, Hiartad gaf Astar-Koss, O! þu vor Hialp r Hella, Hyrdir og Geymare, hier og um Eilijfd alla, Æfinnlegt Lof þier sie.

## Packargiord fyrir lidin Vetur, og Bænar Foorn uppa komandi Sumar.

Ton, Giædskurijkasti Grædari min.

O!

O! Herra Gud eg þacka þier, þu hefur hlijft og stioornad mier, a nu umlidnum Vetre, Háska og Slisum varnad vid, veitt Blessun og þitt Engla Lid; mier og mijnu Adsetre, Drottinn, Drottinn, eg kann eigi, ut ad seigia, Astar Anda, Myskunar þinnar mier til Handa.

Samt hef eg syndgad mikid miog, mooti þier Hætign guddoomleg, minn Gud minstu þess eigi, læt yfergnæfa Giædsku þijn, giordu enn framar vel til mijn, hvad eg efa alldreigi, Drottinn, Drottinn, mijn hefur giætt og Meininn bætt þijn Myskun rijka, unn mier hun fylgi æ epter lyka.

Missirid er nu umlidid, enn hid nælæga tekur vid, þvi bid eg Herrann hijri, ad mig leidi þijn Hialpar Hond, Hættulaust yfer Mein og Grend, og Athofn allri stijri, Drottinn, Drottinn, Andi þinn ad Ondu minni, alltijd giæti, enn Lijkaminn Engla Lidsemd mæti.

Inngang bædi og Utgæng minn, Aform og Hegdan sierhvert Sinn, blessa þu Gud minn goodi, mier og minni so stioorna Stiett, ad stundi eg hana vel og riett, i þinnar Forsiar Floodi, Drottinn, Drottinn, leid þu mig, um Lucku Stig, fra Lasta Voda, virdstu mig alltijd i ollu stoda.

Allt hvad eg giori og giora læt, Gud minn blessad ur ad þvi giæt, so farnist farsællega, Reysilr mijnar og Rada Hag, Rædu og Tilstand Noett og Dag, annast þu alla Vega, Drottinn, Drottinn, læt ei granda, illann Anda, Arfleifd þinni, syndu mier

Myrkan og Sælu minni.

Leid þu mig Gud þann vissa Veg, sem vissa Ord þijn Guddoomleg, um̃ alla Æfi mijna, geym mijn i sannri Gudrækne, gefdu eg so innlæstur sie, i eilijfa Elsku þijna, Drottinn, Drottinn, leyfdu mier ad lifa hier, og lijka deya, og eilijfa Lofgiørd um̃ Alldir seigia, Amen.

## Þackargiørd fyrir lidid Sumar, og Bænar Foorn uppa tilkomandi Vetur.

Med sama Ton.

Ó! Gud Heilagur, Heilagur, Heilagur Gud og Drottinn vor, blessadur um̃ Alldir Allda, þier offra eg nu Þacklæte, þier offra eg nu Bænenne, þier vil eg gott Lof giallda, Gud minn, Gud minn, skilldt er mier ad þacka þier, og þig ad prijsa, upp, upp mijn Harpa og Andleg Vijsa.

Lof sie þier Astar Elskann mijn, Eilijfi Gud fyrir Myskun þijn, og veitta Velgiørd alla, sem nu um̃lidna Sumar Tijd, syndt hefur þu mier Heillinn blijd, og lietst mier allt vel falla, Gud minn, Gud minn, mig hefur leidt, og Meinum eydt, þijn Milldinn rijka, bevarad mig og blessad lijka.

Þu upplaukst þijnum Astar-Brunn, opid settir Naadar Afgrunn, minn Herra mier til Handa, þadann kom mier oll Þorfinn mijn, þvi prijsa eg nu Giædsku þijn, og vil þier Vegsemd vanda, Gud minn, Gud minn, allt hvad er i aumum mier, þier einum unni, Lof þitt sie jafnann i mijnum Munni.

Enn hvad eg h. fiopt og krætt, æreitad þig æ margañ Hætt, med Syndum, Hætign hiira, hvgg þu ei ad þvi, Herra kiær! hylia lættu og afmæ þær, Nada Blood Drottinns dijra, Gud minn, Gud minn, bid eg enn, mig berir senn æ Briostum þijnum, hefand Gæt æ Hogum minum.

Allann mig Drottinn offra eg þier, æ nu komandi Vetri hier, og alla Eñ mijna, geym mijn vid Verkum Glæpugum, geym mijn vid ollum Ovinum, geym mijn fyrir Giædsku þijna, Gud minn, Gud minn, hvar eg er, og hvort eg fer og hvad eg giori, skil alldrei vid mig Hyrdir hijri.

Allt þad sem ecki þocknast þier, þad virdstu taka i burt fræ mier, Vilia þijns Vel so giæti, enn þad sem þier er þægilegt, og þienar til þinnar Dijrdar frekt, gef mier þad Gud minn sæti, Gud minn, Gud minn, oll mijn Verk og Vegnan sterk, sem Maal og Minni, farsæliist i þier uti og inni.

O! Herra tak þad allt fræ mier, er mier kann snwa burt fræ þier, so ockur eingiñ skilie, O Drottinn! gef mier aftur þad, er mier kann þier ad snwa ad, er þad mijn Osk og Vilie, Gud minn, Gud miñ, tak mig mier, og mig gef þier, minn Herra hijri, eilijft Lof sie þier Drottinn dijri!

## Nijaars Psalmur.

Ton, A þier Herra hef eg nu Von.

NIJIs upp mijn Saal ad niju nu, nija Lofgiörd uppbyria þu, þvi nu er nijtt Ar komid, nijr

Skeinkur þier, nij-gefinn er, nij-runnid Himna Bloomid.

Lof sie þier Gud fyrir lidid Ar, Lijfs Heilliñ mijn oll i þier staar, O! þu miñ Anda Kraptur, sem vægdir mier, so enn eg er, a nijtt Ar kominn aptur.

Þu hefur verndad Vedhlaup mitt, vel so eg giæti Hnossid hitt, at nu umlidnu Ari; Miñ Lyffins Baat, i læst Uppsaat, leiddir wr ollu Faari.

Mitt Lucku Segl wtþandir þu, þijnum med Naadar Vindi nu, i Heimsins Offa Floodi, og miñar Stiettar Stijri riett, stioornadir þu Gud goodi.

J þier var Hvijlld og Unun mijn, eg sat og undir Skugga þijn, og gieck i Geymslu þinni, Athvarfid þad var innsiglad, er þu fieckst Saalu minni.

O! mijn Saalar Heill hiartañlig, halltu þvi sama fram vid mig, a Ari inngangandi, Handleidslann þijn, sie Hlijfdinn mijn, vid Hæska og ollu Grandi.

Myskunar rijka Regnid þitt, renni allt inn i Hiartad mitt, og vel planti þar inni, Riettlætis Skart, og Eilkn Art, med allri Gudrækninni.

O J su! sockvu Syndum mijn, i Saara Floodid Tarl þijn, og hvlags H fs Blood rauda, añastu mig, Naad eilsulig, eins i Lijfi sem Dauda.

Allt þad gott sem mier undir þu, almattug Hond þ ng nu, blessandi mig og mijna, O! Andlit bl Ar nijtt, yfir oss lat þu skijna.

## Morgun Psalmur.

T ll,

Ton, JEsu Christe þig kalla eg aa.

Blessada Þrenning blessud sie, blessandi Hagi mijna, Lijkn og Raad sem mier leitst i Tie, Lidsemd og Myskun þijna, Lijf mitt og Saal um lidna Natt, leyst hefur enn fraa Vanda, og illum Anda, so i Dag hef eg Megn og Matt, i mijnu Kalle ad standa.

O Hiartans Fadir! eg bid þig, yfirgief þu mig eigi, annastu nu ad ollu mig aa tilkomanda Deigi, halltu so fast i Hend med mier, ad hendi mig Slijsin eingin, nie Glæpa Geingi, helldur hvad sem eg forma fer, farsælist vel og leingi.

Eg befel mijna aumu Önd, og vesælan Lijkama, og þurfanda Lijf i þijna Hönd, þennan Dag og hvern Tijma, Hegdun, Vit, Skyn og Hiartad kallt, Hugsun Skilning og Sinni, sem Maal og Minni, Ord og Giordir, og Aform allt, innlæsieg Tilsioon þinni.

Blessa þu Inn- og Utgang minn, og allt hvad eg skal vinna, Vidmoot og Hegdun sierhvert Sinn, Sess og Gang Foota minna, Ydiu, Vilia, Raad, Asetning, allt hvad eg er og orka, til Vits og Verka, i Utfor geym mijn allt um kring, og gior þa Trwna sterka.

Hvad þier til Dijrdar einn Gud er; og til Velferdar minnar, framkvæm þad allt i aumum mier, af Nægd Myskunar þinnar, enn ef i Dag þijn Bodord brijt, Breyskleika mijnum vægdu og Hegning hægdu, Hiaalp og Raad þinni Fadir flijt, forþien-

ta Reidi lægdu.

Einginn er Gud annar enn þu, og eingin Hiaalpari Manna, þvi bid eg þig i Naudsyn nu, Naad þijna laat mig kanna, geym mijn fraa allri Glæpa Slood, gief mier þitt Ord eg læri, og Avoxt færi, fyrir JEsu blessada Blood, bænheyr mig Fadir kiæri.

## Kvolld Psalmur.

Med sama Ton.

LOf sie þier Gud fyrir lidin Dag, og Luckuſælar Stioorn alla, þu hefur leidt min Lyfsins Hag, og laatid mier allt vel falla, þo hef eg blessud Bodord þijn brotid i margann Maata, hvad eg nu jaata, misstu alldrei aa Illverk mijn, unn mier af Synd- um kuta.

Nu er ad komid Nattar Pel, nu vil eg Hvilld- ir taka, O Gud ! sem geymir Israel, yfir mier vird- st vaka, laat þinu Verndar Vængin þin, vand- lega ad mier gæta, med Svefn-Roo sæta, vittur mær Heilla Hyrdir min, Himkrunar Naakvæmd- m t.

Vertu nu min Hvijlu hiaa, med heilogum Eng- la S[illegible], Ovin [illegible] all fr[illegible], enn mig heils- enn [illegible] vara, [illegible] mean [illegible] ofa sett, enn Saal- ina i þeir v[illegible] ka, [illegible] taka, Draum Ora, Ogn og alla V[illegible] alldrei laattu mig saka.

Eg befala þier O Rottunn [illegible], Dag og Natt Saalu mijna, breid þu yfir mig HErra, hijr heɪ-

laga Blessan þijna, Lijf og Astvini, Eign og Bæ-
utann og innann Garða, og þa hier hætta, Gud
miñ eg þier i Geymslu fæ, gior þu hiaa oss ad nætta.
Eg legg nu samann Augunn mijn i Guds Nafni
og Trausti, signi mig Heilla Hendiñ þijn, Hyrd-
ir minn goodi og hrausti, signdu Foolkid og signdu
Hws, Signing þessi oss hlijfi og Illt wtdrifi, Sig-
ninginn þijn sæti JEsus, signud yfir oss blijfi.

## Andlaats Bæn.

Ton, Fadir vor sem æ Himnum ert.

O JEsu! JEsu, JEsu minn, JEsu nu ætt Lijf og
Hertoginn, Ondiñ mijn kvakar eptir þier, O-
log Daudans þvi formerker, yfirgiefdu mig ei vid
þad, þo Andinn og Holldid skiliest ad.

Senn rennur Glasid Ara af, eg stend vid Daud-
ans rauda Haf, Vatns-Floodid beliar unnum ad,
aldrei veit nær mig svelgir þad, Ogna Bylgiur
sem ofra sier, O JEsu lat ei dreckia mier.

Kom þu nu med þinn Krossins Staf, kleppan-
di uppa Dauda Haf, lattu mig þurrann Farveg
fa, og Fodurlandi klacklaust na, blessad Daud-
ans Vini þu, Burtfor gief mier sæluga nu.

J þennan diwpa Daudans Hyl, O Mottiñ þig
med mier taka vil, leid þu mig Hæska ollum wr,
einka Hoop mitt og Verndar Mwr, fyndu mier
Bygd og Bæin þinn, i blessud Hybijli leid mig inn.

Myskinar Bianar Skugga skiott, skyl nu miñi
Syndar Graott, fyrir þinn Dauda fleig þeim inn,
i Forþænustu Hylinn þinn, Randa Bloodid wr

Beniūm þijn, blædi wt yfir Illverk mijn.

Allsheriar Gud eg þacka þier, þeigid Laan allt sem veittir mier, miog opt hef eg bad misbrwkad, minnstu nu ecki Gud aa þad, fyrir Brot oll og Br-eifkleik minn, Borgun er JEsus Sonur þinn.

Eg vil nu feiginn fara til þijn, og faa þier aptur Saalu mijn, leid þu hana um̄ Lioosfins Hlid, i lifandi Manna Brndinid, O! þau æfkileg Um̄skipte, ad sia þig þar i Dyrdinne.

Skapari minn þier skila eg nu, Skiepnu Feirtt sem giordir þu, O JEsu tak mig eins ad þier, og annast þann þu Fridkeypter, heilagi Andi haf gaat aa, helgudum þiin i Skijrnar Saa.

Velkominn Daudi, velkominn, vijsa þu mier aa Bwstäd minn, laattu upp Dyrnar Lijfsins þa, laangar mig þar til inn ad naa, þu goodi Giestur, giordu þad, Gud sem hefur þier befalad.

Andvarp mitt DRottinn ælijt þu, O DRottinn! tef ei leingi nu, Fodurlandi mig fyfir naa, forðæmdum Heimi leys mig fraa, Naadinn er vijs og Neydinn stillt, nem upp minn Anda þa þu villt.

Kom þu Lioos Mooder liwf til mijn, laugadu mig i Bloodi þijn, sofna og vakna sætt i þier, sialfur JEsus þad veittu mier, leys mig þegar þier þykir Maal, þier befala eg mijna Saal.

## Hugvekia og Andlaats Bæn.

Ton, Hærsta Lof af Hiartans Grun̄i.

Heyrdu

HErrdu Fadir haatt eg kalla, Hiartad mitt aa Knie skal falla, bid eg þig um Adstod alla, einkanlega i Daudans Tijd.

Veit eg HErra Vondsku mijna, veit eg eirnin Reidi þijna, veit eg grim er Vijtis Pijna, veit eg hørder Daudans Tijd.

Giordir mijnar Glæpum vandi, gang þvi vesin Synda Bandi, hvetur mig þinn helgi Andi, ad hugsa um mijna Daudans Tijd.

Vijda Braut i Verkum stilla, Vondsku lætur Hiartad villa, hvor so lifir aa saa illa, Afgaangs Von i Daudans Tijd.

Eins er eg i Syndum sekur, so sem Hanan Tidrid þekur; Þetta fyrst mig þar til vekur, ad þeinkia um mijna Daudans Tijd.

Kemur lijka af Synda Seidi, sannarlega Drottins Reidi, þetta og annad oss til leidi, ad athuga vora Daudans Tijd.

J þridiu Grein ef þetta fremur, þar af mikil Gagnsemd kiemur, hvor sig þar aa Tijdum temur, ad tala og þinkia um Daudans Tijd.

Af þvi kienir þad allra fyrsta, ei mun þig til Synda lysta, þetta Gagn hiaa þeim mun gista, sem þenkia optum Daudans Tijd.

Svo frai eg ad Syrach segi, syndga mun saa Madur eigi, sem hugsar opt aa hverium Degi, um Heimfor sijna og Daudans Tijd.

J Vi si sijnu varfær verdur, Vonsku Brunnur er nidur sergdur, hiaa þeim sem fyrir þetta er gierdur

ur, ad þeinkja um̄ sijna Dauda Tijd.

Gotter þad ad gleyma Syndum, og gaunga ei eptir Heimi blindum, mikid Gagn er Maña Kyndum, ad minnast þrautt a Daudans Tijd.

Vondra Augun Agyrnd sedur, ad elska Fed, þad margann skiedar; andlegt Gotz þann auma gledur, sem eptir þreyer Daudans Tijd.

Raad er þvi ad vakna vidur, og vondar Gyrndir kesia nidur, S mvitskañ so mætti midur, meida oss i Daudans Tid.

Daudi, veit eg, dvelur e'ge, Daudi er vijs a hverium De'ge, Daudans Grymd ei Briooslid beiger; hvrum oss vid Daudans Tijd.

Allra vor hefur Efi Enda, illir Menn i Kvolum lenda, Ydran skal þvi undann senda, adur eñ kiemur Daudans Tijd.

Reidi þijna, hærsti Herra! Heypt og Brædi lattu þverra, oss þvi angrar vort hid verra, væg þu oss i Daudans Tijd.

JEsu Bænir, Ast og Undir, allar JEsu Pijslar Stundir, Elsku Fadir! Etijd grundir, og aumka mig i D udans Tijd.

O vor JEsu ædsti Goodi! O vor JEsu þolinmood'! þvo þu mig i þijnu Bloodi, þegar mijn kiemur Dauda Tijd.

Nockud ad þo ama meige, oss a þessum Hollds-sins Vege, goodi Herra gleym oss eige, gief oss hæga Dauda Tijd.

Synda Lijnu og vort hid Verra, virdstu, Jesu

af ad Herra, þitt Riettlæti hæsti Herra, hylie mig i Daudans Tijd.

Syndir ecki mijnar mundu, minn Drottinn, a Dauda Stundu, JEsu blessad Blod vor Undum, blædi a mig i Daudans Tijd.

Oss þo Sathan veida vilie, vegna Synda Hiartad kylie, Madurinn Jesus mun Eilie, mijn og hans i Daudans Tijd.

Naavist Guds i Neyd og Pijnum, Naavist Guds med Englum sijnum, hægi og lini Meinum mijnum, mijn þa nalgast Daudans Tijd.

A þa Daudans Dyr vill detta, Drottinn virdstu undir lietta, lat mig hafa þa Idran rietta, og orugga Von i Daudans Tijd.

Rettu ad mier Hialpar Hendur, Hatari minn þa nærri stendur, send þu Engla Vakt og Verndur, veikri Saal i Daudans Tijd.

Og þo nockud Ogna meigi, oss a þessum Hollds ins Vegi, goodi JEsu! gleym mier eigi, gief mier hæga Daudans Tijd.

HErrans JEsu Hollð i Braudi, HErrans JEsu Dreirinn raudi, HErrans JEsu hardi Daudi, hægi mier i Daudans Tijd.

Aull þau Saar og Symda Byrdi, oll þau Taar sem JEsus syrgdi, ollumeiginn ad mier girdi, i Andlat og Daudans Tijd.

Naadar Brunnur er Firdar fundu, ferskur er hann a hvorri Stundu, hann þvi renni ur HErrans Undum, um Hiartad mitt i Daudans Tijd.

Sia þu ei miña Synda Galla, Saalar miñar Oviñi alla, laattu, O Drottinn, faungna falla, enn frelsa mig i Daudans Tijd.

Athvarf mitt og einka Hæli, ertu JEsu Brooder sæle, þijn Narvera fraa mier fæli, Fiandmann minn i Daudans Tijd.

Nær sem dvijnar Nauda-Kierra, nær sem Æfe-Stundir þverra, sie þa Bæn mijn sæti HErra! þitt sijdasta Ord i Daudans Tijd.

Daudinn þa fyrir Dyrunum stendur, og Dagurinn er voti og endur, Fadir i þijnar Fridar Hendur, fel eg Saal i Daudans Tijd.

Lyftu hijngad hærsti Fadir! sem til hinna eru sofnadir, hiedann förum Hiarta-gladir, þvi Hættulaus er Daudans Tijd.

Allra Handa Eymd og Pijnu, alijt þu aa Barni þijnu, þad laat hægia Meini mijnu, mig þa naalgast Daudans Tijd.

Trwi Fadir! Heyrdu Hlioodid; Hroopar til þijn Jesu Bloodid, Vors Elsku Broodurs Unda Floodid, sie Offur mitt i Daudans Tijd.

Snwdu alldrei Augum þijnum, i fraa JEsu Broodur mijnum, Bloodid hanns med hördum Pijnum, hiaalpi mier i Daudans Pijn.

Bid eg þig, þitt Barn ad heyra, bid eg þig, fyrir JEsu Dreyra, byrg þu eckt aptur Eyra, vid Andvarp mitt i Daudans Tijd.

Ædsti Gud sem auma grædir, og Andskotann i burtu hrædir, nem minn Anda upp i Hædir, inn

til

til þijn a Daudans Tijd.

Nu vil eg med Hiartans Hondum, hallda þier i Malum vondum, og lofa þig med þijnum Londum, þad sie vijst um alla Tijd.

## Uppvakningar Aminning.

Ton, Giædsku Guds vier prijsum.

NU aumi Islands Lijdur, Almuga Foolkid hier, eg vil avarpa ydr, um sa Ord: Heyrid mier! aminni eg ydur fyrst, Guds Rad med Þockum þiggid, þratt ad hans Giædsku hyggid, sem alltijd auglijsist.

Allar hanns Gafur grunda, getur þad einginn Mann, þo eigum þar til stunda, þad framast verda kann, einkum þess vitkunst vær, hrein Truu bijr hier i Landi, Heilagt Ord og Guds Andi, oll Þiood þad ecki fær.

O! hvad ein Edla Gafa, af Himnum kominn oss, Guds Ord hier hreint ad hafa, heitir þad dijrsta Hnoss, Munntomust Miolk og Vijn, er vier uppausa kunnum, Israelis ur Brunnum, Sooln skiærara skijn.

Riettnefndt Halcions Hreidur, Heilog Christninn er þad, hærst i Guds Hond so stidur, i Hlienu fær Samastad, Rat ugi Logn Rægdar Roo, Astgiof hanns eg þad segie, ad þad forgengur eige, vid Storm, Sker, Brim, Storsioo.

Heilagi Fuglinn friidi, festi sitt Hreidur hier, hanns Unga herleg Prijdi, Himnesk og Dijrdleg er, vulldt

valdi þeim Verndar Mañ, ad stydia, geyma og giæta, græda, umsia og bæta, hyggiñ og ha lærdañ.

Ordsins Ret wtþeniandi, Astkiærann hefur hvørn, þann Gudi er av unnandi, eins og Holldgetiñ Børn, Fadernis gefur Gaum, er so þess Avijsari, ad ei sie Naudin veikari, helldur enn Natturann naum.

Sønn Kienning, Sacramentum, Sannleiks Andinn og Trw, med þeim Lyklum Laghendtum, lijkst upp Guds Rijki nu, JEsus er Jaarn-Hlid Manns, ad hanns Ørmum einn liggium, og Mylkun siwga þiggium, wr badum Brioostum hanns.

O! hvad aumt Oþacklæti, oss gietur forblindad, fæir trwi eg grant giæti, Guds Milldi Verkum ad, ill Laun þad undir bioo, Naut þeckir opt Eiganda, og Asninn Ståll sijns Raadanda, Jsrael ecki þo.

Fiskar, Dijr, Fuglar frijdir, færa Gudi sitt Lof, Hestar, Naut, Hundar, Saudir, hann þeckia sem þeim gaf, honum þeir hænast ad, o! hvadlangt af þeim berum, altignir bestu Kiorum, ecki þo þeckum þad.

Kañskie ei enn ad gaadum, ad þacka fyrstu Giof, Skopun Lijfs og Skijrn naadum, Skyns vard ei leingi Tof, hvad mun þa hitt annad? Sool, Tungl, Stiørnur, Aß, Audur, Elldur, Vindur, Vatn, Haudur, og allt Gagn sem giorir þad.

Og ef ei um þad hyrdum, er so Handgaungum vier, enn sijdur Andlegu vyrdum, Osyneleat sem er O! hvad aumt Efni Manns, margur er M ... s

valls-

daufur, Molldverpu Edli hefur, sturlar þad Stijr-
ir Lands.

Hier kom med Hroopi stooru, Haalærdur Bo-
kumann, adgiætinn Efni voru, allsaa vakandi fañ,
Lwdur sinn þeytti þaa, Formann Lands Forsiaa
hendti, sim tijusinnum bendti, þeim hañ sofandi saa.

Innudæll Hugvekiu Hlioomur, Heyrum kunnur
er vijst, sætari enn Svana Roomur, sonnum Guds
Bornum lijst, su Lijssins Lindinn Good, Svala
Dryck Saalum giefur, sannfegri Hreim þui hefur,
eñ Davids Horpu Hliood.

J Guds Vijngard innrenna, Ovægiñ spilli dijr,
enn þvi er uñ ad kenna, ad Vakt er Hlioda rijr,
þetta sann Fadir Lands, hañ kom þvi Rodd hroop-
andi, Herra sijns Veg greidandi, i Saal sofandi
Manns.

Hvor er saa ei vill vakna, vid soddann Lwdurs
Hiood? Maal er wr Roti ad rakna, riisum upp
Borninn good, leggium moot Taar og Trw, Af-
sokun hofum eigi, aa þeim sijdarsta Degi, ef hofnum
ad heyra nu.

Margur kann so til svara, sanntalad þetta er, tak
þig Vinur til Vara, veit eg hann bendir þier, ei
meinar hann til mijn, ecki er eg sofandi, nie Uggley-
sis Medvitandi, allir giæri su sijn.

O nei, laat ecki heyra, Ord slijk af Munni þier,
hver er saa hreint kann giora, Hiartad i sioalfum
sier, nie sitt nærsta ad siaa? Blaamañs Hwd br-
eitist ecki, ber Pardus sijna Flecki, Fijll sterkur falla
maa.

Hafer þu Heilagann Anda, og heitir tvivalid Kier, vid Gud skalt best þig binda, med Bandi þvi tvíþætt er, Ótti og Ást er þad, laat þad þitt Lijf Akkeri, ad lifa sem fromum bæri, Bæn og Trw gef Haum ad.

Einginn skal Ohætt kalla, medur hanns Glas vtrann, nie Æfi Hættu alla, umsliwid hafi hann, Skipid sveima ar æ Sioo, Olldu gat ifirfarid, og hvassann Storm afborid, vid Lending lamast þo.

Þu sem villdir vel lenda, vendu þig forsiaalann, ella kann Afdrif henda, Ydranar Skiptapann, vertu vakandi Þioon, ad annars Ofórum gaadu, og (til Vareigdar) siaadu, Judam, Saul, Salomon.

Eñ so einfalldir viti, a hvoriq hroopad er, fiegta Handa Foolks giæti, fyrst eru linheyrder, adrer sofandi senn, þeim hæfir hætt til tala, sem hallda sig i Skarkala, fioordu fiarlægir Menn.

Dausa þa somu segi, sem ei heyra Guds Ord, ydka og elska eigi, aukandi Saalar Mord, og med Hiegooma hier, er sinn Alldur vid ala, eins og Aspis med Hala, opt byrgia Eyrunn sier.

Hvor sem giordi Hugfesta, Hlut nockurn sierlegann, og mét ann nam ei næsta, þo nockur averpi hann, eins þad andlega sker, Heyrnar Brest hann kann henda, sem Hiartad giordi fast binda, vid Heims Umsvifum hier.

Adrer hiner sætt sofa, Sælliifis Dijnu a, med Samson Hvijldir hafa, i Hondum Dalila, hun merk-

merkir Holldsz Vellyst, Andleg Orka þeim eydist, sem elskar hana og þijdist, Ovinum afhendest.

Ef þwngt kann oß ad falla, Eyrun og Hluster Mans, Heyrnenn nemur oß burt alla, eins skedur hitt til Sans, dauf ur Andlega er, sa sem stoor Goots og Garda, giorir oft-ast innskorda, i Hug og Hiarta sier.

Þridia þeir þessu vallda, Þorf er ad hropa haatt, i Glaa-lijst Heims sig hallda, Heyrnar verdur þvi smatt, um þad sem Andlegt var, velldur sa sijfell Nidur, sem þeir alast upp vidur, sem Nilus Raadwar.

Laangur Avani lioptur, linheyrdann giorir Mann, eins og sa sem þar situr, er sijfell Straumur rann, Nidur Heyrn krenkia kann, so fer þeim sem framana, i Synda laungum Avana, heyra ei Hrooparann.

Fioordu sem kiarlægt standa, fast þarf ad kalla oß, Illgiordir allra Handa, oß skilia Gudi fraa, kaatleg Complexio, Hlust sækir Holldsins Vessi, Heyrnar Rwm byrgir þessi, so fer Samvitskann sloo.

Vor liwfi Landsins Fadir, Loflegi Hyrdir trwr, Herra PORLAKUR þad er, þeim greidir Vanda wr, dausa oß Sioonskijr sa, wtbwinn af Guds Anda, oß gaf þa strax til Handa, alkroptugt Ephata.

Lijtilatis Giof giæddur, Guds riettur Augasteinn, Fodurs Sinni sannklæddur, setti upp Spegil einn, miog þarfur Monnum er, hvad oß lijtir og lagar, leyfist og hitt sem bagar, sijnir þad Sioonar Gler.

Vier vorum Gullmynt gooda, Gudi Moot markader, soddann Skatt sier ad blooda, sialfs hans Skipun þad er, aflagad er vort Hnoß, sitt Gull þvi sierhvor reyni, med soddan Proofunar Steini, sem Fadir vor færdi oß.

Skiært Lioos a Vegum vorum, vissa Leid beinir þad, Skipid a brottum Baarum, her Seglid Landi ad, Gler-Gluggur Sagnid iook, Illvidri wtbyrgt hefur, i Hws þo Byrtu gefur, sia hier Hugvekiu Book.

Soomir Sannchristnum Lijdum, sia hvad Lijfs-Stund

er hætt, Roddu vors Hyrdirs hlijdum, Haga Land byggdum fætt, umskerum Yfirhwd, mioo er Gyllini Gata, gott er hana ad rata, heim fraa Svijna Sambwd.

Fyrsta Hnoss frooma Herra, Foolki Drottins sem gaf, krefur Packlætis þeirra, þar hliota Nytsemd af, sijdann þad so laangt nær, ad Eflaust gleymist þad eigi, aa Endurstickunar Degi, þa Lof og Laun forsiaall fær.

Ef ad Ephata þetta, oss getur vakid nu, ad læra Lijfs Braut rietta, og lifandi sijna Trw, þa mun hiti a Dooms Dag, Ephata er þa heyrum, upplijkur Grøfum vorum, boda oss hollann Hag.

Guds Rijkis giørum leita, Sagn er þad sierhvors Manns stundum til hreint ad heita, Herbergi og Tialldbwd hans, hvar inni Herrann vor, Trwar Gull geti fundid, gooda Silfre sambunded, sem er Kienninginn klaar.

Kierta Hiaalm hvor upp setie, Heilagt nytt Lysþad er, Nordann Myrkri aa mooti, og Maalminn vorn laatum vier, syngia Herrans Lof haatt, Hefdar Teikn Hws Dyr prijdir, hvar Kongi gista hlijdir, so skylldi Guds Hwss Gaatt.

A Alltari þvi ytra, til Offurs deyda ber, Holds Villd og Hrecki bitra, sem helldur miog tijdkast hi er, innra Alltari þitt, laat ei Bænar-Foorn bresta, med brennandi Kiærleiks Neysta, so skal Herrans Hws prijdt.

An þijn, Gud allsvalldandi, eckert gott vinnast maa, verkui oss eflandi, allt hvad þig lystir aa, og oss umvardar mest, gef oss sann-hlijdid Hiarta, og Hreinlijfis alla Parta, Afdrif þo einna best.

O! Gud opna oss Eyra, og Hiartans Hlustirnar, so Sannleiks Kienning klaara, kunni innrætast þar, legdu til Lidsmun þinn, ad naaum Ordsins Gagni, og i þeim Kongsins Vagni, i Fodurland feriunst inn.

O JEsu! Þud mijn falar, Ending Veralldar Kijfs, þu ert Saal vorrar Saalar, so og Lijfid vors Lijfs, annast þetta þa, i þier erum og hrærunst, i þier lifum og nærunst,

hier gef oss Gud sia.

Hæsti Heilagi Andi, hollur Stijrimann vor, ad lifandi Manna Landi, leid oss vid hægann Byr, gegnum Heims Hættu hvar, i Sælu Hofn laat oss lenda, og lofandi Gud aan Enda, sia hann um Eilijf Ar, Amen.

# Registur.



HErra

Nær

O

